# Tímarit

## Þjóðræknisfélags Íslendinga





XLVII. ÁR

WINNIPEG, MANITOBA
1966






# A SWEET FOR THE SWEET TOOTH

. . . and what can be compared to the delectable selection at "The Bay"! Chocolates for the the aristocrat by Del's and Morden's . . . made in Winnipeg fresh daily for your appreciation . . . Pick 'n' Mix your favorite individually wrapped candies from over 96 varieties . . . or for your someone special, boxed chocolates by every famous brand! A selection so enticing . . . another reason why more people prefer to shop at "The Bay"!

the Bay

**The Bay Candies, Main Floor.**

PATRONIZE OUR ADVERTISERS — They Are Helping To Make This Timarit Possible.

# IN MEMORIAM

HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
His Excellency the Rt. Hon. The Earl of Athlone, K.C.
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephanson, skáld
Frú Stefanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Július (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona
Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur
A. S. Bardal, útfararstjóri
Ólafur Pétursson, fasteignasali
Sveinn Björnsson, forseti Íslands
Árni Pálsson, prófessor
Sigurgeir Sigurðsson, biskup
Ásmundur P. Jóhannsson
Dr. A. H. S. Gilson, U. of M. Pres.
Einar Jónsson, myndhöggvari
Jón J. Bíldfell, fyrrum ritstjóri
Einar Sturlaugsson, prófastur
Þ. Þ. Þorsteinsson, skáld
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld
Gunnar B. Björnsson
G. J. Oleson
Halldór Hermannsson, prófessor
Dr. theol. Rúnólfur Marteinsson
Einar Páll Jónsson, ritstjóri og skáld
Dr. Þorkell Jóhannesson, háskólarektor
Rt. Rev. C. V. Pilcher, Sydney, Australia
Dr. John C. West, fyrrv. forseti U. of N.D.
Dr. Vilhjálmur Stefánsson
Thor Thors, sendiherra
Hon. Gudmundur Grimsson, Bismark
Mrs. Kristin Thorsteinsson, Gimli
Dr. Thorbergur Thorvaldson, Saskatoon

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1965

### A. Heiðursverndarar (Honorary Patrons)

George P. Vanier, D.S.O., M.C., C.D., Governor-General of Canada.
Herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands.
His Excellency the Honourable Vincent Massey, former Governor-General of Canada.

### B. Heiðursfélagar (Honorary Members)

Prófessor Sigurður Nordal, Reykjavík, Ísland
Dr. Watson Kirkconnell, President, Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Blöndósi, Ísland
Jónas Jónsson, fyrrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
J. T. Thorson, fyrrv. yfirdómari, Ottawa, Ontario
Árni G. Eylands, stjórnarráðsfulltrúi, Stavanger, Nöregi
Vilhjálmur Þór, bankastjóri, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Próf. Ásmundur Guðmundsson, fyrrum biskup Íslands
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Pófessor Richard Beck, Grand Forks, North Dakota
Dr. Helgi P. Briem, fyrrv. sendiherra, Reykjavík, Ísland
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Árni Helgason, raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Stefán Einarsson, fyrrv. ritstjóri Heimskringlu, Vancouver, B.C.
Dr. Stefán Einarsson, próf. emeritus, Reykjavík, Ísland
Gunnar Thoroddsen, sendiherra, Denmark.
Valdimar Björnsson, ríkisféhirðir, Minneapolis
Guðmann Levy, fjármálaritari Þjóðræknisfélagsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. theol. Valdimar J. Eylands, Winnipeg, Manitoba
Hon. John G. Diefenbaker, fyrrverandi forsætisráðherra Kanada
Hon. Dufferin Roblin, forsætisráðherra Manitobafylkis
Guðmundur Í Guðmundsson, fyrrv. utanríkisráðherra Íslands
Sigurður Sigurgeirsson, bankaritari, Reykjavík, Ísland
Ólafur Hallsson, Eriksdale, Manitoba
Dr. H. H. Saunderson, President University Manitoba
Dr. Finnbogi Guðmundsson, Reykjavík, Ísland.
Einar Baldvin Guðmundsson, formaður H/F Eimskipafjelags Íslands.
Bjarni Benediktsson, forsætisráðherra Íslands
Grettir Leo Johannson, ræðismaður, Winnipeg, Man.
Ingibjörg Jónsson, ritstjóri Lögbergs-Heimskringlu, Winnipeg, Man.

**C. Styrktarfélagar**

**Sustaining members for 1965**

Mrs. Lousa G. Gislason, Morden, Man.

Mr. Snorri R. Gunnarsson, Vancouver, B. C.

Mr. Sigurður Helgason, New York

Mr. Grettir Leo Johannsson

Mr. Johann Th. Beck

**D. Life members**

K. Valdimar Björnson, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Björn Björnson, Consul of Iceland, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Dr. Helgi P. Briem, Reykjavík, Iceland

Grettir Eggertson, Winnipeg, Man.

Dr. Árni Helgason, Consul of Iceland, Wilmette, Ill., U.S.A.

Eric Ísfeld, Winnipeg, Man.

Grettir Leo Johannson, Consul of Iceland, Winnipeg, Man.

J. Walter Jóhannson, Pine Falls, Man.

Mrs. B. E. Johnson, Winnipeg, Man.

Guðmann Levy, Winnipeg, Man.

Mrs. Anna Margrét Levy, Winnipeg, Man.

Óskar E. Levy hreppstjóri, Ósum, Húnavatnss., Iceland

Gunnar R. Pálsson, Lake Park, Florida, U.S.A.

Rev. P. M. Pétursson, Winnipeg, Man.

Árni Sigurðsson, Seven Sisters Falls, Man.

Dr. P. H. T. Thorlakson, Winnipeg, Man.

Dr. Richard Beck, Grand Forks, N. Dak.

Mrs. Margret Beck, Grand Forks. N. Dak.

Walter Maxon, Innisfail,Alta.

Mrs. Louisa Gislason, Morden, Man.

1. ÍSLAND

**E. Ársfélagar**

Jóhannes Eiríksson, Kristneshæli, Eyjafjarðarsýslu

Seðlabanki Íslands, Reykjavík

Séra Ásgeir Ingibergsson, Hvammi í Dalasýslu.

2. ENGLAND

The Library, University College, London. Gower Street, W. C. L., England.

3. REPUBLIC OF IRELAND

Dr. James Delargy Director "Irish Folklore Comm," University College, Dublin 2.

4. CANADA

**Ashern, Man.**

Björn Jónasson

**Atikokan, Ont.**

Einar I. Swanbergson

**Baldur, Man.**

Hansina Gunnlaugson
Mrs. B. K. Jónsson
Mrs. Rose Lewis

**Brandon, Man.**

Dr. E. J. Skafel
Mrs. Elin M. Hood
Miss Helen Bjarnason

**Elfros, Sask.**

Helgi Hornfjörð
Rósmundur Árnason

**Foam Lake, Sask.**

Mrs. Steinunn Inge.

**Eiriksdale, Man.**

Mrs. J. R. Johnson.
Miss Emma J. Sigurdson.

**Hayland, Man.**

Sigurður B. Helgason

**Kristnes, Sask.**

Guðmundur Stefánsson
Bæring Gablielsson

**Leslie, Sask.**

Ásgeir Gíslason
Páll Guðmundson

**Matheson Island, Man.**

Árni G. Johnson

**Chilliwack, B. C.**

Mr. and Mrs. K. A. Magnússon.

**Langruth, Man.**

Mrs. B. Bjarnason, V. Valdimarson.
Mrs. J. (Kristlaug) Finnbogason

**Islington, Ont.**

Mrs. Ragnhildur Guttormsson.

**Kinsota, Man.**

Sveinn Johnson

**Kitchener, Ont.**

Kristinn O. Oddson

**McCreary, Man.**

Mrs. Hilda Crout

**Prince Rupert, B. C.**

Mrs. K. Einarsson

**Ottawa, Ont.**

August S. Johnson.

**Regina, Sask.**

Mr. and Mrs. Hafsteinn Bjarnason.

**Riverton, Man.**

Hallgrímur Joh.Stadfeld
Valgeir G. Stadfeld
M. Coghill
Kris. Thóransson
S. B. Johnson
Guðjón E. Johnson

**Toronto, Ont.**

H. J. Péturson.
Mrs. H. L. Robson

**Vancouver, B.C.**

Mrs. Alla Warburton
Herman Sigurdson
Mrs. Thordis Fisher

**Swan River, Man.**

Mrs. Lára Sveinsson

**Westbourne, Man.**

Mrs. Guðrún Thorsteinsson

**Winnipeg, Man.**

Mrs. L. A. Björnson
J. A. Eastman
Mrs. Alma S. Eastman
Miss Vilborg Eyjólfsson
Miss Carolina Gunnarsson
Mrs. Gyða Hurst
Halldór J. Stefánsson
David Björnson
Mrs. Rose Björnson
G. F. Jónasson
Loyd Magnus
J. M. Page
Simon Shannon
J. H. Johnsòn
Miss Katrín Brynjólfsson
Magnús Elíasson
Mrs. Guðrún Thorkelsson
Mr. and Mrs. Earl J. Helgason
Mrs. Maria Sivertson
Mrs. Halldóra Peterson
Bjorn Johnson
Mrs. Maude McCreery
Mrs. Lara B. Sigurdson
Mrs. Kristin Depoe
Mrs. Elizabet Zimmerman
Miss Fanney Sigurdsson
Mr. Haraldur Einarson

**Wynyard, Sask.**

Thorsteinn Guðmundson
Magnús Jónasson
Mrs. Gudrun Finnson

5. BANDARÍKIN

**Boston, Mass.**

Kormákur Ásgeirsson
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Valgeir Einarsson
Kapt. Thor Guðmundss.
Kapt. Guðm. Jóhanness.
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theodór Jónsson
Guðmundur Pálsson

**Cashmere, Wash.**
Chris Guðmundson

**Charlottesville, Virg.**
Prof. R. L. Kellogg

**Ft. Landerdale, Fla.**
Gunnlaugur Illugason

**Grand Forks, N. Dak.**
Mrs. V. Guðmundson, University of N. Dak. Library

**Ithaca, N.Y.**
Vilhjálmur Bjarnar

**Bremerton, Wash.**
Rev. G. P. Johnson

**Chigago, Ill.**
George Hanson

**Seattle, Wash**
Rev. and Mrs. Kolbeinn Seimundson

**Lincoln, Nebraska**
Prof. Paul Schach

**Hopple, N. Dak.**
Mrs. Laufey Aaland

**New Brunswick, N.J.**
Prof. Helgi Johnson, Rutgers University Library

**Minneapolis, Minn.**
G. T. Athelstan
Mrs. Edda Laxdal
Miss Hjördís Bjarnason
Mrs. Margret Arnar

**Rochester, Minn.**
Thorey J. Sigurjonsdottir, M.D.
S. E. Thorvaldson, M.D.

**New Haven, Conn.**
Yale University Library

**Hickville, L.I., N.Y.**
Olaf Helgason

**Oceanside, L.I., N.Y.**
Andrés Guðmundson

**Portland, Oregon**
Miss Ollie Gislason

**Salinas, Calif.**
Prof. Loftur Bjarnason

4. DEILDIR OG SAMBANDSFÉLÖG

**The Icelandic Society of New York**
Hannes Kjartansson
Jerome Miller
Mrs. Jerome Miller
Miss Halldóra Rútsdóttir
Ludvik Jónsson
Richard Richardson
Mrs. Margrét Rossback
Mrs. Thorey Vogle

Edward Eoulfield
D. Sommerfield
Árni Ólafsson
Capt. Olaf Olsen
Capt. Magnús Norðdahl
Mrs. William Richards
Mrs. Edda Magnússon
Mrs. Eane Thomson
Mrs. Nanna Kolberg

**Deildin „Ísland", Morden, Man.**

Forseti
Willie Olafson
Stefán G. Einarson
Ben S. Einarson
Lorry Einarson
Andy Gíslason
Lovisa Gíslason (ævifélagi)
Jón Gudmundson
Leonard Helgason
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Óli Lindal
Mrs. Freda Lindal
Mrs. Willie Ólafson
Willie Ólafson
Jóhann P. Thomasson
Thomas Thomasson
Mrs. Kristín Thomasson
Guðrún Thomasson
Janathan Thomasson

**„Brúin", Selkirk, Man.**

Stjórnarnefnd
Jack Björnson
Olla Goodbrandson
Grettir Johannson
Guðrún Vigfússon

Aðrir meðlimir
Thorleifur Skagfjörð
Jafeta Skagfjörð
Sigurbjörg Björnson
Ola Magnusson
Margrét Goodman
Kristinn Goodman
Friðrik Nordal
Sigrún Nordal
Einar Thorvaldson
Vigdís Johnson
Rúna Magnússon
Christie Johnson
Dr. Oli Johnson
Johanna Goodman
Pete Thorsteinson
Árni Stefánson
Kristín Stefánson
Christie Roger
Lillian Hirnk
Emma Bessason

**„Frón", Winnipeg**

Forseti
Jakob F. Kristjánsson
Varaforseti
Próf. Haraldur Bessason
Skrifari
Páll Hallson
Varaskrifari
Skúli Jóhannson

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

FERTUGASTI OG SJÖUNDI ÁRGANGUR, 1965

Ritstjórar

GÍSLI JÓNSSON

HARALDUR BESSASON




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1966

## Myndir

Bls.

Gísli Jónsson ........ 4

Bærinn á Háreksstöðum ........ 7

Jón Benjamínsson ........ 16

Synir og dóttir Jóns ........ 22

Brattahlíð á Grænlandi ........ 36

Sjávarlón í Nýfundnalandi ........ 39

Vínviðarlauf ........ 41

PRENTAÐ HJÁ COLUMBIA PRINTERS, WINNIPEG

# Efnisyfirlit

Bls.

HARALDUR BESSASON: Á níræðisafmæli Gísla ..... 5

GÍSLI JÓNSSON: Heiðarbúinn og ættmenn hans ..... 7

RICHARD BECK: Svipmyndir frá sjávarströnd ..... 34

GÍSLI JÓNSSON: Orð í belg um Vínlandsfundinn ..... 35

GUTTORMUR J. GUTTORMSSON: Á heimleið ..... 44

Dr. RICHARD BECK: Ljóðagerð Vilhjálms Stefánssonar ..... 46

Dr. RICHARD BECK: Tvö smáljóð ..... 53

GÍSLI JÓNSSON: Ný bók ..... 54

JAMES D. PICKERING: The Conversion of the Haugbúi ..... 55

Dr. HELGI JOHNSON: Iceland Revisited ..... 70

GÍSLO JÓNSSON: Snow (Ttranslation) ..... 110

Mannalát (R. Beck safnaði) ..... 111

Fertugasta og sjötta ársþing ..... 120

HARALDUR BESSASON:

# Á níræðisafmæli Gísla Jónssonar

9. FEBRÚAR 1966.

Meðritstjóri minn hefir harðbannað mér að minnast hér þess mannsins, sem ég hygg, að hafi einn Íslendinga setið í ritstjórasessi á níræðisafmæli sínu. Í þeirri vissu, að forfeður mínir, víkingarnir, hafi stundum brotið lögin, virði ég að vettugi boð og bann Gísla Jónssonar og tileinka honum níræðum þennan árgang Tímaritsins. Hefi ég tekið mér það bessaleyfi að endurprenta hér grein eftir afmælisbarnið. Grein þessi er fyrst og fremst birt hér vegna ágætis síns. Í öðru lagi er hún í höndum aðeins örfárra manna hér vestanhafs og því ekki úr vegi að nota þetta tækifæri til að koma henni á framfæri við lesendur Tímaritsins.

Níræðisafmæli er mikill áfangi á mannsævinni, ekki sízt þeim mönnum, sem njóta óskertrar heilsu. Veit ég með vissu, að vinir Gísla Jónssonar munu fúslega bera vitni um, að níræður hefir hann ekki orðið fyrir ásókn þess ellihrumleika, sem margan manninn hefir mætt, þótt yngri væri að árum. Ég fæ ekki betur greint en að hátterni Gísla beri vott um innra æskufjör, sem hefir styrkzt við reynslu níu áratuga. Sívakandi áhugi á mannlegum vandamálum er endurnýjunarlind þess andlega fjörs, sem hinn aldurhnigni maður býr enn yfir.

Jökuldalsheiðin, fæðingarsveit Gísla Jónssonar, varð heimkynni margra efnismanna. Börn Jóns Benjamínssonar á Háreksstöðum voru þar engir eftirbátar. Urðu þeir Háreksstaðabræður þjóðkunnir menn, og vissulega eru lesendur þessa rits mætavel kunnugir verkum þeirra bræðra Gísla og Einars Páls.

Gísli hefir sjálfur skýrt svo frá, að sem ungbarn hafi hann komizt í kast við dauðann. Var hann þá „vafinn innan í dúnsæng og stungið ofan í hærusekk“ og haldið í honum lífinu. Mér þykir trúlegt, að þessi fyrsta orrahríð Gísla hafi aukið honum viðnámsþrótt þann, sem vel hefir dugað á langri ævi. Það er og athyglivert, að svo bráðger var þessi sonur Jökuldalsheiðarinnar, að um fermingu var hann tekinn að yrkja svo vel við smalamennskuna, að eldri skáld hefðu mátt líta hann öfundarauga. Í fyrri ljóðabók Gísla „Farfuglum“, sem gefin var út í Winnipeg árið 1919 er m. a. að finna ljóðið „Nætursmalinn“, en það ljóð orti höfundur árið 1890. Þetta ljóð er einstæður vitnisburður um andlegt atgjörvi drengs, sem enn er lítt af fermingaraldri, en er tekinn að safna kröftum meðan „mannkyn sefur vært.“ Eins og sjá má annars staðar í þessu riti er höfundur enn á ferð um Jökuldalsheiðina um það bil þremur aldarfjórðungum eftir

að smalamennsku hans lauk á þeim slóðum. Undarleg er heiðin, þessi harðbýla sveit, sem bauð fólki sínu hin erfiðustu kjör, en fékk samt að launum ævilanga tryggð þess. Hálfníræður minnist Gísli Jónsson þess, að á heiðinni hafi verið „undrafögur útsýn“. Sú útsýn hefir vafalaust átt sinn þátt í því að skapa þau jákvæðu lífsviðhorf, sem hafa fylgt honum síðan.

Gísli Jónsson hefur rakið sögu Jökuldalsheiðarinnar og sýnt með rökum, að erfið ganga heiðarbúa hafi orðið sigurför. Segja má einnig, að líf hans sjálfs sé dæmi um þá sigurför. Sakir eðliskosta sinna fékk hann ungur notfært sér þá menningaruppsprettu, sem æskuheimili hans var. Einnig var honum mikils virði námsdvölin á Möðruvöllum. Möðruvellingar voru menntaðir framfaramenn, og hefir Gísli svarið sig í þá ættina.

Ungur að árum kvæntist Gísli Guðrúnu Finnsdóttur, og fluttust þau hjónin til Winnipeg laust eftir aldamótin síðustu. Gísli kom fyrst einn síns liðs vestur, og getur Guttormur J. Guttormsson skáld komu hans með svofelldum orðum: „Hann kom hingað til lands með tuttugustu öldinni, og við hefði átt að ávarpa hann sem öldina sjálfa: „Kom þú sem bragur með leiftarandi lag!“ Guttormur hermir sannleikann, því að Vestur-Íslendingum var ekki lítill fengur að þeim hjónum Guðrúnu og Gísla. Í Winnipeg nutu þau hjónin mikils barnaláns, og heimili þeirra varð eins konar hof fagurra lista, sem fjölskyldan öll rækti. Bæði urðu þau hjónin kunn fyrir ritstörf austan hafs og vestan.

Ritstörf Gísla Jónssonar bera vott um menntun og víðsýni. Vald hans á íslenzkunni er með afbrigðum gott og dómgreind hans örugg í þeim efnum. Hann hefur bætt drjúgri spildu við akurlendi íslenzkrar tungu og bókmennta. Tómstundirnar dugðu honum ekki einungis til ljóðagerðar og ritgerðasamningar, heldur gaf hann út og betrumbætti verk eftir aðra menn. Sízt má og gleyma því, að undir stjórn hans náði Tímarit Þjóðræknisfélagsins mestum þroska, enda lagði hann mikið af mörkum sjálfur og fékk til liðs við sig hina færustu menn, sem hefðu líklega sumir hverjir setið hjá, hefðu þeir ekki notið brýningar ritstjórans.

Gísli Jónsson er gæddur ríkum tilfinningum, enda þótt hann flíki þeim ekki. Sum af beztu ljóðum hans eiga sér rætur í sorginni. Nefni ég sem dæmi gullfallegt erfiljóð, sem hann orti við andlát Unnar dóttur sinnar árið 1918, og víst er hinzta „Kveðja“ hans til dr. Rögnvalds Péturssonar stór í sniðunum. Hins er og að minnast, að Gísli er einnig gleðinnar maður og nýtur sín vel í fjölmenni. Valda því andlegt fjör og fáguð framkoma. Hann er maður jafnvægisins og meðalhófsins og hefir kunnað svo vel þá flóknu list að lifa lífinu vel, að forsjónin hefir þegar veitt honum fleiri ævistundir en flestum öðrum. Þykir mér nú sýnst að hnýta aftan í þessa afmæliskveðju þeirri ósk, að enn megi Gísli Jónsson njóta þeirrar útsýnar, sem minni hann á þær slóðir íslenzkar, þar sem „sést Herðubreið í vestri yfir Möðrudalsfjallgarðana ofan fyrir miðju og Snæfellið í suðri fannhvítt niður að rótum.“



Háreksstaðir, framhlið. Sjá bls. 23.

GÍSLI JÓNSSON:

# Heiðarbúinn og ættmenn hans

Þessi ritgjörð er endurprentuð úr bókinni Haugaeldar, sem kom út á Íslandi árið 1962, en er ekki til sölu vestanhafs.

### Tildrög.

Það sem hér verður sagt um Jökuldalsheiðina og ættfólk mitt þar, styðst, að því er snertir landnámið og byggðarsöguna, við: „Jökuldalsheiðin og byggðin þar", í fyrsta bindi Austurlands eftir Halldór Stefánsson. Mun ég þó binda mig aðallega við fæðingarbæ minn og þá bæi, er foreldrar mínir bjuggu á, nema þar sem óhákvæmilega verður minnzt annarra bæja og búenda. Ættfærslan er byggð á Ættum Austfirðinga eftir séra Einar Jónsson og bréfi frá Margréti móðursystur minni um móðurættina, sem er að ýmsu leyti nákvæmara. Margir fæðingardagar og ár eru úr gömlum kirkjubókum, sem séra Sigurjón, bróðir minn, náði til og lét mér í té. Þá sögusagnir og munnmæli föður míns og föðursystur og annarra frænda. Síðast en ekki sízt er það, er ég sá og heyrði og man frá uppvaxtarárunum, og að lokum verður nokkuð rakið um síðustu afdrif ættarinnar, og um leið vísað til annarra rita um þau efni. Verður ekki hjá því komizt að tala í fyrstu persónu tíðum, einkum þegar fram í dregur, þótt atburðirnir í sjálfu sér snerti alla fjölskylduna og heimilið í heild sinni. Endurminningar eru í eðli sínu ávallt persónulegs eðlis á einn eða annan hátt, og geta stundum verið mismiuni eða röngum upplýsingum háðar.

### I.
### Framættir og skyldulið.

Snemma á nítjándu öldinni, líklega ekki síðar en seint á öðrum tug aldarinnar, flyzt ungur maður, smávaxinn og hvatur í spori, norðan úr Þingeyjarsýslu austur á Jökuldal. Hann hét Benjamín og var Þorgrímsson, fæddur á Þorvaldsstöðum í Húsavíkursókn við Skjálfanda 10.

júlí 1799. Ættin virðist þó hafa verið að austan, því faðir Þorgríms, Þórður Jónsson, og kona hans Guðrún Þorgrímsdóttir bjuggu í Austur-Skálanesi í Vopnafirði og var Guðrún fædd og uppalin þar í sveit. Talið er nú víst, að Þórður hafi verið sonur Jóns Jónssonar ríka, er seinast bjó á Ási í Kelduhverfi og mun hafa verið vopnfirzkur að ætt. Hann er talinn ættfaðir Reykjahlíðarættarinnar gömlu. Æviskrár nefna aðeins Þorstein son Jóns, föður séra Jóns, föður séra Hallgríms á Hólmum, Péturs í Reykjahlíð, Jakobínu konu Gríms Thomsen og fleiri systkina. En Jón í Ási var þrígiftur. Þorsteinn stúdent var af öðru hjónabandi hans. Þórður var þó talinn laungetinn. Jón bjó hátt upp í þrjátíu ár í Möðrudal á Fjöllum, áður en hann flytti búferlum lengra norður. Þórður og Þorsteinn í Reykjahlíð hafa því verið hálfbræður. Um barnsmóður eða konu Þorgríms er það eitt vitað, að hún hét Helga Halldórsdóttir og var að sögn heyrnar- og mállaus. Í þá tíð lærði mállaust fólk aðeins verkleg störf og gat að öðru leyti lítilli sjálfsvörn beitt. Þess vegna komst sá orðrómur á flot, að Benjamín hefði verið rangfeðraður. Þorgrímur dó 1814. Brátt er Benjamín í ástum við unga bóndadóttur, sem Guðrún hét Vigfúsdóttir frá Hrærekslæk; munu það hafa þótt ójöfn skipti, því að sögn var þeim meinað að giftast. En ekki fór þó varðveizlan betur en svo, að þau áttu barn saman, áður en samvistum þeirra sleit til fulls. Dóttirin hét Helga eftir móður hans og varð mesta myndar og ágætis kona. Sá ég hana í hárri elli á heimili sonar síns, Gunnars bónda Pálssonar á Ketilsstöðum á Völlum vorið 1897, þá að mestu blinda. Enn lenti Benjamín í kvennafar; átti hann dóttur með Sólrúnu Andrésdóttur frá Bakkagerði í Hlíð. Hét dóttirin Kristín og giftist í Héraði, en móðir hennar fluttist síðar vestur um haf.

Innan við þrítugt er Benjamín orðinn ráðsmaður í búi á Arnórsstöðum á Jökuldal. Hjónin þar voru Gísli Jónsson, fyrrum bóndi á Hvanná og í Bót, og seinni kona hans Ingveldur Guðmundsdóttir Sigurðssonar, bæði ættuð af Austurlandi langt í ættir fram. Þrjár ættkvíslir Gísla frá Þorsteini Jökli á Brú koma saman í móðurætt, en aðrar austan úr Papey í föðurætt frá Guðmundi bróður þeirra Bessa sýslumanns og Narfa prests Guðmundssonar (Æviskrár I. og III.).

Þegar hér er komið sögu, er Gísli við aldur og talinn örvasa. Dóttur áttu þau, er Guðrún hét og stóð á tvítugu. Henni kvæntist Benjamín árið 1825, og bjuggu þau í tvíbýli við foreldra hennar til ársins 1834 á Arnórsstöðum. Þar munu tvö eða þrjú börn þeirra fædd — Ísak, Gísli og að líkindum dóttir, sem dó um eða eftir tvítugt (Ingveldur).

Næsta ábúð þeirra er á Skeggjastöðum í útdalnum austan ár. Þar fæddist Jón (faðir minn) 14. júlí 1835. Eftir sex ár fluttu þau búferlum frá Skeggjastöðum að Bakkagerði í Jökulsárhlíð og þar fæddist yngsta barn þeirra, Elínborg, 1841. Talið er, að Benjamín og Guðrún hafi eignazt sex börn.

Um þetta bil hefst hin einstæðasta nýbyggð landsins — bygging

Jökuldalsheiðarinnar. Á rúmum tuttugu árum voru 16 nýbýli reist — frá 1841 til 1862. Háreksstaðir var fyrsti bærinn og eftir það hvað af hverju önnur nýbýli. Fimmta býlið reistu þau Benjamín og Guðrún 1847 og nefndu Veturhús. Í þá tíð var grösugt mjög þar um slóðir, veiðivötn mörg og gott aðfanga. Fiskuðu þeir feðgar þar vor og haust og upp um ís á vetrum — einkum í Ánavatni. Þar bjuggu þau í næstu sex ár og þar virðist þeim hafa liðið vel, þrátt fyrir vetrarharðindin, sem ávallt fylgdu heiðinni. En nú taka þau sig upp og flytja sig niður í Eskifjörð. Að líkindum hefur Benjamín þekkt þá Reykjahlíðarfeðga, séra Jón Þorsteinsson og séra Hallgrím son hans, sem þá var prestur að Hólmum í Reyðarfirði, annars hefði hann naumast tekið þetta langa stökk norðan úr heiði. Kann hann og að hafa talið til frændsemi við þá feðga. Eskifjörður var víst kirkjujörð frá Hólmum í þá tíð. Þessi jarðaskipti urðu þeim mikil vonbrigði. Bærinn var í niðurníðslu og láku öll hús í rigningu. Óyndi kom í alla, jafnvel í búféð og drapst það unnvörpum úr pest — líklega vegna ólíks haglendis. Fluttu þau því næsta ár upp á Jökuldal og þaðan aftur í Heiðina. Dó Benjamín tveim árum síðar á Víðihóli í innheiðinni 8. okt. 1855, fullra 56 ára gamall, en Guðrún lifði lengi eftir það og andaðist á heimili Jóns sonar síns að Fögrukinn árið 1868.

Fjögur börn Benjamíns og Guðrúnar náðu fullorðins aldri. Ísak var elztur — líklega fæddur 1826. Hann varð bráðþroska, gáfaður áhugamaður og skáld gott. Þegar hann átti heima á Veturhúsum var fyrsta útgáfa af kvæðum Jónasar Hallgrímssonar nýprentuð og orti Ísak mjög í anda Jónasar. Ég man, að Elínborg fór með ljómandi fallegar vísur um heiðina með sama hætti og „Þú stóðst á tindi Heklu hám". Löngu seinna, þegar ég hafði öðlazt löngun og skilning á svona fræðum hér vestra, var það orðið of seint, því minni gömlu konunnar var þá farið forgörðum. Eina vísu man ég enn, sem sungin var í Heiðinni og á Jökuldalnum frá því löngu fyrir mitt minni. Hygg ég nú, að Ísak hafi ort hana, þótt fyrir því hafi ég enga vissu. En vísan er svona:

Inn til Jökla, inn til Jökla
ég vil mína ævi búa.
Að mér fjalla dísir hlúa,
þótt ég gangi frosnum fótum
fram með bláum jökulrótum.
Þar er ég svo frjáls og frí —
fjallborg helgri luktur í.

Enginn annar hagyrðingur var á dalnum eða í heiðinni um þær mundir.

En Ísak átti sér fleiri áhugamál og drauma. Þetta var um það leyti, er verzlunin var gefin frjáls við allar þjóðir. Mun þá hafa myndazt hreyfing meðal yngri manna, að stofna frjálst búnaðar- og verzlunarfélag austan lands. Átti Ísak að fara utan í því skyni. Til að afla sér frekari menntunar fór hann til náms norður að Grenjaðarstað. Þar var þá prestur, samkvæmt Prestatali, séra Magnús Jónsson. Vorið eftir kom Ísak austur aftur, veiktist

á leiðinni af skæðri lungnabólgu og dó. Um þetta fara þó tvennar sögur. Ísak, bróðir minn, sem ég dvaldi hjá í sumarfríi í Seattle skömmu áður en hann dó, fullyrti, að nafni sinn hefði dáið á Grenjaðarstað og sé þar greftraður.

Næstur að aldri var Gísli, fæddur 10. maí 1829. Hann var meðalmaður á hæð, allvel greindur, gleðimaður og fjörmaður, fríður sýnum og kvennagull hið mesta. Enda varð honum hált á því þegar á unga aldrei, því hann eignaðist tvö börn í lausaleik, dreng og stúlku sitt með hvorri stúlkunni, áður en hann kvæntist. Var annað þeirra Gísli, sá er úti varð í heiðinni 1874. Dóttirin giftist heima og fór með manni sínum vestur um haf um sama leyti og faðir hennar. En Gísli var að öðru leyti reglumaður og prúðmenni í daglegu fari og sá þessum börnum sínum farborða eftir beztu getu. Kona Gísla hét Guðbjörg Daníelsdóttir, Þorsteinssonar frá Götu í Héraði. Þau hafa víst átt heima á ýmsum bæjum á Jökuldalnum um árabil. En árið fyrir öskufallið 1874 eru þau komin að Mel í útheiðinni og bjuggu þar þangað til sumarið 1876, er þau fóru til Vesturheims. Þau eignuðust víst nokkur börn, sem dóu í æsku. Aðeins einn sonur, Björn að nafni, komst til fullorðinsára. Bjó hann á heimilisréttarlandi þeirra á Pembina fjöllunum svonefndu í Norður-Dakota. Hann dó þó á undan foreldrum sínum, sem bæði létust í hárri elli nokkru eftir aldamótin síðustu — Gísli var þá orðinn alblindur. Eitthvað af börnum Björns eru enn á lífi þar syðra.

Eftir Eskifjarðarhrakförina kom víst los á heimili þeirra Benjamíns og Guðrúnar. Þó munu Jón og Elínborg hafa átt heimili með foreldrum sínum þangað til Benjamín dó. Eftir það eru þau í vistum. Einhvern tíma fyrir árið 1860 eru þau bæði til heimilis á Arnórsstöðum. Þar var þá bóndi Benedikt Gunnarsson, bróðir séra Sigurðar Gunnarssonar eldra, sem prestur var á Hallormsstað.

Jón var, svo sem áður er getið, fæddur árið 1835. Hann var tæpur meðalmaður á hæð, fríður sýnum og léttur í spori eins og faðir hans. Einn veturinn lagðist hann í taugaveiki, lá lengi þungt haldinn og felldi allt hár. Taldi hann víst, að hann yrði sköllóttur alla ævi og faldi höfuð sitt í mórauðri prjónahettu og forðaðist umgengni við aðkomandi fólk. Eftir nokkurn tíma óx honum þó hár, en það var svart í stað hins upprunalega bjarta hárs. Gekk mér lengi vel illa að skilja hvers vegna skeggið var gulbjart, en hárið þó svart. Á heimilinu var ung stúlka ógift á sama reki og hann, sem vorkenndi þessum feimna dreng og leit hann að líkindum auk þess hýru auga. Hún hét Guðrún og var Jónsdóttir. Þau giftust þar árið 1860 og reistu bú á Hlíðarenda næsta ár (1861). Hlíðarendi var eitt af nýbýlunum í heiðinni og var byggt í Arnórsstaðalandi.

Guðrún var fædd í Breiðuvík í Borgarfirði eystra 25. febrúar 1834 og var dóttir Jóns Bjarnasonar fræðikarls og góðbónda þar. Bjarni faðir hans (Galdra Bjarni), bóndi í Brúnavík, var Einarsson og verður ekki með vissu rakið lengra í karl-

legg. En í móðurætt hans er Guðný Pétursdóttir, dóttir Snjófríðar Jónsdóttur pamfíls; en kona Jóns pamfíls, Ólöf Árnadóttir systir Gunnlaugs, sem limlestur var og barinn til dauðs í Hrafnkelsdal um miðja 18. öld, var í framætt af Þorsteini Jökli. Kona Jóns í Breiðuvík og móðir Guðrúnar var Þórunn Magnúsdóttir, Jónssonar, Oddssonar á Rifi á Melrakkasléttu. Magnús bjó á ýmsum bæjum í Borgarfirði og víðar og hafði auknefnið Latínu-Magnús. Kona hans hét Vilborg, dóttir Jóns Þorvarðssonar þess er úti varð með Reynistaðabræðrum á Kjalvegi 1780.

Börn Jóns og Þórunnar voru níu — fimm synir og fjórar dætur. Munu þau hafa tvístrazt upp um allt hérað og dali, þegar foreldra þeirra missti við. Kemur Guðrún hér einkum við sögu. Þess má þó geta, að Vilborg, síðari kona Eyjólfs Magnússonar síðast bónda á Unaósi á Úthéraði, var móðir Gunnsteins tónskálds og rithöfundar á Unalandi við Íslendingafljót hér vestra. Þau komu hingað vestur 1876 og dóu í hárri elli — Vilborg á tíræðisaldri. Yngsta systirin, Margrét, giftist Sigtryggi Benediktssyni, Keldhverfingi að ætt; bjuggu þau góðu búi á Grundarhóli á Hólsfjöllum. Af þremur börnum þeirra komst til fullorðins ára Jón lögfræðingur og bæjarstjóri á Seyðisfirði.

Þau Jón og Guðrún reistu bú á Hlíðarenda eins og áður er sagt, og þar fæddist fyrsti sonur þeira 25. júlí 1861 og var skírður Benjamín. Þau bjuggu þar aðeins eitt ár, samkvæmt sögu H. S. Eftir það missir söguhöf. sjónar á þeim hjónum til ársins 1868, er þau flytja búferlum að Mel. Manntöl og kirkjubækur sýna þó ljóslega, að þau eru komin að Fögrukinn ekki síðar en vorið 1863. Á þessu eina ári getur leikið vafi. Ísak bróður minn minnti, að foreldrar okkar hefðu búið eitt ár á Veturhúsum, áður en þau fluttu sig að Fögrukinn. En ekki kemur það saman við sögu H. S. Má því óhætt fullyrða, að þau hafi farið frá Hlíðarenda að Fögrukinn vorið 1862, og að allir aðrir, sem sagan tengir við bæinn á þeim árum, hafi búið þar fyrir eða eftir þann tíma. Í öll þessi ár búa þau í einbýli til þess er þau fluttu að Mel. Á öðru árinu, veturinn 1864, þann 26. marz fæddist þeim sonur, er hlaut nafnið Jón, og réttum tveim árum síðar fæddist þriðji sonurinn, Ísak, þann 29. marz 1866 (sjá systkinaminning Hkr. 1950). Hálfu öðru ári síðar fæddist þeim eina dóttirin, sem þau eignuðust, Þórunn Guðrún, 28. sept. 1867, en hún dó á Mel 22. ágúst 1869 úr barnaveiki. Í heimilinu voru auk þeirra og barnanna Elínborg systir Jóns og Guðrún móðir hans, þangað til hún andaðist. Í eitt ár voru þó þar með þeim í húsmennsku Grímur Magnússon með tólf ára syni, er Guðmundur hét. Grímur hafði búið þar áður en kona hans lézt. Drengurinn fluttist löngu seinna vestur um haf og tók upp nafnið G. A. Dalmann. Hann skrifaði stundum smásögur í Heimskringlu og var vel metinn borgari suður í Minneota í Bandaríkjunum.

Sumarið 1868 flytja þau að Mel, sem er austan ár nokkru sunnar og var eins og hinir bæirnir eitt af nýbýlunum í Heiðinni. Þar fæddist Gísli hinn fyrri, sem einnig dó ung-

ur (f. 25. júní 1869 — d. 30. apríl 1872). Á Mel var Gunnar líka borinn 8. marz 1870 — sjötta barnið í röðinni.

Þegar hér er komið sögu eru frumbyggjar Háreksstaða ýmist dánir eða fluttir burtu — allir nema Solveig Eiríksdóttir, er þar hafði búið í tvíbýli frá landnámstíð (1841). Með henni voru Jónína dóttir hennar og tengdasonur, Jón Guðmundsson frá Hrafnabjörgum í Hlíð. Þau eignuðust einn son, Jón Pétur, en svo dó Jónína víst skömmu síðar.

Þá varð það að samkomulagi milli Jóns og Solveigar, að Jón flutti með sitt fólk að Háreksstöðum, en Sólveig að Mel. Það var vorið 1871. Á vist með Jóni var þá Elínborg systir hans. Hún giftist Jóni Guðmundssyni og átti með honum einn son, er Sigurjón hét. Hann dó rúmlega eins árs gamall á Húsavík. Rúmlega ári síðar flytur Solveig alfarin úr Heiðinni, en Jón Guðmundsson og Elínborg skrá sig til Braziliúfarar ásamt Jóni Pétri. Þau fóru landveg norður í Húsavík við Skjálfanda, því þar átti skip að taka alla Braziliúfara vorið 1873. Skipið kom aldrei til Húsavíkur, en flest efnaðra fólkið fór víst með öðru skipi til Kaupmannahafnar seinna um sumarið og þaðan áleiðis vestur. Þeim Jóni og Elínborgu eyddist brátt farkostur í biðinni, því um atvinnu var ekki að ræða. Urðu þau því af förinni og réðust í vistir, hvort í sínu lagi. Jón komst bráðlega í náin kynni við stúlku norður í Höfðahverfi við Eyjafjörð, er Guðfinna hét, og kvæntist henni síðar, eftir að hann hafði fengið löglegan skilnað. Elínborgu mun hafa verið nauðug Braziliúförin. Þar við bættist sonarmissirinn í allsleysinu og biðinni nyrðra. Kann það að hafa stuðlað að klofningi þeim, er svo leiddi til skilnaðar. Elínborg var eftir það nokkur ár í vistum þar norður, lengst á Veturliðastöðum í Fnjóskadal. Austur á Háreksstaði kom hún árið 1881 og var þar jafnan með bróður sínum eftir það.

Hjónaskilnaðir voru litnir öðru auga í þá tíð — voru taldir ganga glæpi næst og ólíkt því, er nú tíðkast víða, þar sem fólk hefur manna og kvenna skipti svo að segja árlega og ekki talið að sök. Einkum kom þetta hart niður á konunum, sem ekki máttu giftast aftur nema með konungsleyfi, þótt þeirra væri eigi sökin. Jón Guðmundsson hitti ég af hendingu við Laufáskirkju laust fyrir aldamótin. Hann bjó þá góðu búi í Höfðahverfinu og var hinn gervilegasti maður. Jón Pétur ólst fyrst upp á vegum föður síns. Eftir að hann óx upp dvaldi hann um tíma hjá frænda sínum, séra Einari Jónssyni á Kirkjubæ. Hann fór ungur vestur um haf og tók upp nafnið Ísdal. Hann bar alltaf hlýjan hug til Elínborgar og fannst faðir sinn hafa leikið hana ómaklega. Við kynntumst honum lítillega hér í Winnipeg og var hann þá kvongaður. Hann safnaði ýmis konar fróðleiksmolum. Síðar fór hann vestur á Kyrrahafsströnd og dó þar fyrir allmörgum árum.

**Háreksstaðir.**

Þegar Jón Sölvason hóf nýbyggð sína á Háreksstöðum árið 1841, voru þar glögg merki fyrri byggðar. Eng-

inn vissi að vísu deili á Háreki, en nafnið hafði haldizt við blettinn og sá Jón því enga ástæðu til að breyta því. Munnmælin sögðu, að bærinn hefði lagzt í eyði í Svarta dauða, en fyrir því fannst þó enginn stafur. Þegar grafið var fyrir grunni bæjarhúsanna, þóttust þeir finna menjar mannabeina og í kofagrunni fram af hlaðinu, sem þeir byggðu upp og gerðu að smiðju, fundu þeir trefjar af heilli barnsbeinagrind, sem var svo fúin, að henni var mokað upp í veggina. Þessa sögu sagði Solveig þeim systkinunum Jóni og Elínborgu. Þau voru bæði sannsögul og lengi minnug, einkum Elínborg, þangað til á seinni árum, að hún fékk snert af heilablóðfalli og förlaðist þá minni.

Háreksstaðaland er afar vítt og breitt. Að austan er það takmarkað af Fellnahlíð; á henni eru fjögur einstök fell. Syðstur er Skjaldklofi, næst er Dritfell einna hæst með klettabelti í vesturhlið — þar verpa hrafnar — þá Skálafell með lítilli klettöxl og hvilft inn í miðju; nyrzt er Geldingafell. Úr norðurenda þess liggur merkjalínan skáhallt til vesturs yfir Sauðárdal milli Bruna og Sauðafells til Hofsár norðan Ármóta. Suðurlínan er frá syðstu takmörkum Skjaldklofa um Lönguhlíðar sporðinn yfir Skollagrenisás og Þrívörðuháls til Gestreiðarstaðakvíslar norðan Langahryggs á móts við Eyktagnípu, sem er hádegismerki frá Gestreiðarstöðum. Vesturlandamörkin eru farvegur Gestreiðarstaðakvíslarinnar. Fram hjá Háreksstaðabænum að austan rennur Háreksstaðakvíslin. Hún á upptök sín beggja vegna Lönguhlíðar í Ytri-Botnum og í dölunum beggja megin við Skollagrenisás og Þrívörðuháls. Í hana renna að austan Háfslækur úr Háfsvatni (sem reyndar var kallað Skjaldklofavatn í mæltu máli) og flóunum í kring. Móts við bæinn að austan falla Skipalækur úr Skipatjörn og nokkru norðar Myllulækurinn og Ytri-Lækur úr Lómatjörn og Sauðalónaflóa. Að vestan rennur Fagrahvammalækur úr Lindarselsflóanum og smærri sprænur helzt í vorleysingum og haustrigningum úr Helluhlíðar- og Stekkjarflóunum. Í fyrri tíð var kvíslin að mun vatnsmeiri en síðar varð, eftir að öskufallið og þar af leiðandi landbrot og sandstormar þurrkuðu upp sumar uppspretturnar. En á hverju vori verður hún samt að stórfljóti, sem engum er fært nema fuglinum fljúgandi. Austur frá Lindarseli er lágur foss í milli kletta, en þó svo hár, að silungur sást aldrei fyrir ofan hann. Í Skjaldklofavatni var aldrei nein veiði. Öll hin stærri vötnin voru full af silungi. Í efri Vatnaflóanum renna lækir til vatnanna og frá þeim — úr Geldingavatni til Tunguár og úr Stórhólmavatni og Langhólmavatni til Sauðár. Vestur af Geldingavatni, sem liggur undir samnefndu felli, er Langhólmavatn og aðeins mjór melhryggur í milli, þar sem stytzt er. Nokkru sunnar, undir miðju Skálafelli, er Stórhólmavatn. Í því er hólmi stór, sem hækkar til suðurs. Þar á toppnum er grasi vaxin bunga ekki ólík bát á hvolfi. Segir arfsögnin, að Skjöldólfur landnámsmaður hafði verið þar að veiðum, þegar Hákon og menn hans vógu

hann og heygðu þar. En Skjöldólfur hafði byggt í leyfisleysi í landnámi Hákonar, sem segir í Landnámu. Eftir að ég var farinn úr Heiðinni, gróf Jón, næst-elzti bróðir minn, í hauginn, en það var of snemma vors og frost ekki úr jörðu. Enda dó hann skömmu síðar, og þeir síðustu í ættinni fluttust á brott. — Svanir og endur verptu í hólmunum. Spölkorn austur frá bænum er Skipatjörn, sem samnefndur lækur rennur úr. Þar er einnig veiði, en ekki mátti fiska oftar en þriðja og fjórða hvert ár — annars tæmdist hún. Þar var silungur bragðbeztur. Í öllum hinum vötnunum voru ólík fiskakyn. Fleiri tjarnir eru í landinu. Til austurs frá Skipatjörn í Vatnaflóanum er Reiðtjörn; hana varð að ríða á leið til Skjöldólfsstaða, því botnlausar keldur voru á báða vegu. Nokkru norðar er Lómatjörn. Þar verptu lómar og himbrimar. Á hálsinum eru Götutjarnir og Kríutjörn. Í Kríutjörn eru þrír hólmar. Norðan til einn allstór og djúpt að, en í suðurenda tveir lágir hólmar og grynnra til botns. Óðum við þangað, strákarnir, upp fyrir mitti og rændum kríuhreiðrin. Síðan hef ég dáðst að hugrekki og vængjastyrk þessara litlu fallegu fugla. Undir Dritfelli er stór tjörn eða vatn, sem þornaði að mestu upp síðari part sumars. Óx þar fífa á leirunum, sem tilsýndar líktist nýföllnum snjó.

Landið og landslagið ber glöggvar menjar ísaldar. Hólar, melar og öldur eru myndaðar úr gráum leir og vatns- eða íssorfnum steinvölum með stærri björgum innan um. Eggjagrjót og hellur eru helzt þar sem vatn frýs árlega á yfirborðinu. Á milli urðanna og melhólanna liggja víðlendir flóar, flesjar og mýrar, með einkennilegum upphækkuðum holtum, sem kallaðar voru dysjar. Jarðvegurinn í flóunum er rauður og járnblandinn og vatnið beiskt á bragð. Berar klappir eða klettar eru óvíða. Sauðafellið norður frá bænum hefir þó klettabelti lágt frá austurhorni og í boga að sunnan og vestan. Uppi á beru berginu eru stór björg, sum meira en mannhæðar há — auðsjáanlega menjar ísaldar. Haust eitt gekk ég upp á Dritfellið; þar háttar eins til — afar stór björg hvíla þar ofan á nöktum klöppunum. Þaðan er undrafögur útsýn; sést Herðubreið í vestri yfir Möðrudalsfjallgarðana ofan fyrir miðju og Snæfellið í suðri fannhvítt niður að rótum. Í norðri hillir upp svartan bakka frá hafinu yfir öll fjarlægari fellin og heiðarnar.

Í Háreksstaðalandi voru reist tvö nýbýli. Munu landamerki hafa verið nokkuð óákveðin þar í fyrstu. Hið fyrra var Hólmavatn á vesturströnd Langhólmavatns (1861). Er ekki ólíklegt, að landneminn hafi haldið, að hann væri að byggja í afréttarlandi Vopnfirðinga. Mun hann hafa ætlað að treysta á veiðina í vötnunum, því engjalönd eru þar rýr og langt að sækja. Þar var búið aðeins eitt ár. Sami maður reisti víst tvö nýbýli, en eirði hvergi til lengdar. Þar man ég eftir aðeins einni húsatóft, sem jafnað var næstum við jörð. — Hitt býlið var Lindarsel, röskan hálftíma gang innar frá Háreksstöðum. Þar voru tvær húsatóftir og hefur þá verið betur

byggt en á hinum staðnum eða byggingarefni betri, því þegar ég fór þar fram hjá sumarið 1952, bar þar við loft greinileg veggjabrot eftir 90 ár; og á smalatíð minni fyrir og eftir 1890 hýsti ég ærnar stundum í stærri tóftinni, þegar þokan var svo dimm, að hvergi sá fram fyrir tærnar. Á Lindarseli stóð ábúð yfir aðeins eitt ár, en þar gerðist þó ein af hinum mörgu harmsögum heiðarinnar.

### Sorgir og stríð.

Þegar foreldrar mínir voru komin að Háreksstöðum, hygg ég að þau hafi talið sig hafa himin höndum tekið. Þetta var óefað stærsta og bezta jörðin í Heiðinni; landrými mikið, veiðivötn góð, engjalönd nærri ótakmörkuð — þó ekki nærtæk — og túnskækill, sem fóðraði kú að mestu. Kýr munu ekki hafa verið algengar á heiðarkotum í þá tíð. Börn voru yfirleitt brjóstmylkingar á fyrsta ári, og ef það brást, dóu þau tíðum vegna mjólkurskorts að vetri til. Á búskaparárum föður míns færðist túnið út smátt og smátt og gaf af sér aldrei minna en kýrfóður og í sprettuárum mun meira. Voru færikvíar tíðum hafðar á sumrum til að teðja holtin út úr túnfætinum.

Eins og áður er getið, misstu þau Jón og Guðrún yngsta son sinn, Gísla hinn fyrri, árið eftir að þau fluttu að Háreksstöðum. En rúmu ári enn síðar, þann 15. sept. 1873, fæddist þeim sjöunda barnið, sonur, sem hlaut nafnið Þórarinn. Og enn tveimur og hálfu ári síðar fæddist þann 9. febr. 1876 Gísli hinn síðari (ég sem þetta rita). Þá komu dimmir dagar. Eftir fimm eða sex vikur kom einhvers konar farsýki inn á heimilið. Þrjú yngstu börnin veiktust og móðir þeirra lagðist í rúmið hættulega veik. Um læknishjálp var ekki að ræða. Eini læknirinn á öllu Austurlandi mun hafa verið búsettur á Eskifirði þá. Eitthvert kvöld sat faðir okkar með mig, hvítvoðunginn, í fanginu og sá ekki betur en að ég væri að gefa upp öndina. Tók hann þá til þeirra örþrifaráða að dreypa ofan í mig hálfri teskeið af brennivíni. Við það raknaði ég við og hefur mér ávallt síðan þótt dropinn góður. Morguninn eftir var ég vafinn innan í dúnsæng og stungið ofan í hærusekk og bar Benjamín, sem þá var á fimmtánda árinu, mig á bakinu út að Mel. Þar bjuggu þá sem áður er sagt Gísli föðurbróðir minn og Guðbjörg kona hans. Héldu þau í mér lífinu til vorsins, en þá fluttu þau alfarin vestur um haf. Móðir okkar reis aldrei úr rekkju eftir það og andaðist eftir þunga sjúkdómslegu þann 5. apríl um vorið og var greftruð í Hofteigs kirkjugarði.

### Þáttaskipti.

Prestur í Hofteigi var þá séra Þorvaldur Ásgeirsson, glaðlyndur, vinsæll og góðhjartaður maður, sem bar hagsmuni og líðan sóknarbarna sinna fyrir brjósti. Hann hafði víst skírt flesta drengina og fermt þann elzta og nú að síðustu jarðsungið móður þeirra. Hann tók því sárt heimilisástandið og langaði að bæta að einhverju leyti úr því. Hjá honum var þá á vist Guðríður Benjamínsdóttir, ekkja með þriggja eða fjögra ára dóttur, sem Kristbjörg hét. Guð-



Jón Benjamínsson, sjötugur.

ríður var ættuð úr Þistilfirði, en fluttist ung í Vopnafjörð og giftist þar Magnúsi Árnasyni, Húnvetningi að ætt. Hann dó frá þremur börnum, því yngsta nýfæddu. Drengirnir tveir, Þorsteinn og Stefán, urðu víst að alast upp á sveitarstyrk, þangað til þeim var leyft að vinna fyrir sér; en stúlkuna ól móðirin upp á kaupi sínu. Þessa konu réði séra Þorvaldur fyrir ráðskonu að Hákreksstöðum. Vildi hann helzt, að þau giftust bráðlega, Jón og hún. Þetta sá ég löngu seinna í bréfi, er prestur hafði skrifað Elínborgu um hag bróður hennar þá. En bæði var það, að ekkert mun hafa verið föður okkar fjær skapi þá en kvonfang, og svo var Guðríður allmörgum árum eldri, sem reyndar hefði ekki komið að sök. En svo var enn annað. Á henni hvíldi sveitarskuld, sem hvorugt hafði efni á að borga. En þá og reyndar löngu síðar mátti enginn giftast, sem skuldaði sveitinni. Guðríður tók við bústjórninni og gekk mér þegar í móður stað; tók hún við mig þvílíku ástfóstri, sem réði miklu um örlög hennar og framtíð eins og síðar mun sagt verða.

Vorið 1879 kom seint. Snjókyngið í Heiðinni var með mesta móti. Sumarið áður hafði verið fremur rýrt heyskaparár. Þegar vorið lengdi eftir sumrinu og enginn bati kom, var sýnt að fénað varð að reka til byggða. Hestum var komið á útbeit út í Vopnafjörð. Kýrin ein átti nægan heyforða. Faðir okkar fékk því leyfi til að reka fénaðinn niður að Arnórsstöðum á Jökuldal. Tók hann með sér matbirgðir og hey á stórum sleða til að strá fyrir fénaðinn, ef illa viðraði. Útbeit á Arnórsstaðamúlanum brást sjaldan eða aldrei.

Á Arnórsstöðum bjuggu þá Páll Jónsson, af hinni alkunnu Melaætt í Fljótsdalnum, söngmaður góður, snyrtimenni og skemmtilegur í viðræðum — og síðari kona hans Hróðný Einarsdóttir frá Brú, hin ágætasta kona, fríð, góðhjörtuð og vinföst. Þau áttu fjögur börn og var næst-elzti sonurinn Einar, sem prestur varð fyrst á Hálsi í Fnjóskadal og síðar lengst ævinnar í Reykholti. Páll bóndi dó ungur ári síðar (1880). Á heimili með þeim var þá ógift stúlka hátt á þrítugs aldri, sem Anna hét. Hún og Hróðný voru systkinadætur. Móðir Hróðnýjar var Anna Stefánsdóttir, kona Einars á Brú, en faðir Önnu var Jón Stefánsson hreppstjóri á Gilsárvöllum og Hvoli í Borgarfirði. Móðir

Önnu hét Steinunn Eyjólfsdóttir, fríð kona og skapmikil. Þau Jón og Steinunn voru systkinabörn, bæði frá systrum Hermanns í Firði, lengra fram. Anna var fædd á Hvoli þann 3. sept. 1853. Hún átti og yngri albróður, sem Jón hét. Þegar faðir þeirra féll frá, munu þau hafa komið upp í Jökuldalinn til frænda sinna á Brú og átt þar heima meðan gömlu hjónanna naut við. Jón kvæntist ungur og bjó á ýmsum bæjum í Heiðinni og á dalnum og síðast í Vopnafirði. Fór löngu síðar með fjölskyldu sinni til Vesturheims og tók upp nafnið Vestdal.

Seinna um vorið, þegar snjóa leysti, kom faðir okkar heim með féð og var þá harðtrúlofaður Önnu. Kom hún víst alfari seinna á vorinu. Ekki varð nú samt af því, að þau giftust það árið. Baðstofan var komin að hruni og var endurreisn hennar álitin meira aðkallandi en hjónaband. En af Guðríði er það að segja, að hún áleit starfi sínu sem ráðskonu lokið og beiddist lausnar úr vistinni. Lögðu þau þá bæði að henni að vera kyrr og ekki sízt Anna. Mun henni þá ekki hafa þótt árennilegt að taka ein við heimili með sex strákum á ýmsum aldri og hafa enga kvenlega hjálp. Guðríður lét þá tilleiðast að fara hvergi. Annaðist hún ávallt matreiðslu og búr- og eldhússtörf. Þegar ég löngu seinna kvaddi föðurhúsin fylgdi hún mér grátin úr garði. Hana langaði, að ég nú held, til að rekja mér alla hina leyndustu þræði ævi sinnar. Um leið og hún sagði mér frá þessu, bætti hún því við, að í rauninni hefði hún ekki setið kyrr fyrir bænarstað þeirra, heldur hefði það verið litli drengurinn, sem hún hefði gengið í móður stað og fengið ofurást á, er reið baggamuninn. Hún sæi að vísu ekki eftir því nú, því oftast hefði sér liðið vel eða þolanlega í heimilinu, en. . . Ég tók víst fram í fyrir henni. Ég hafði aldrei séð gamla konu úthella hjarta sínu í óslökkvandi sorg, og sízt átti ég þess von frá henni, sem aldrei virtist tala orðinu hærra og hafði jafnan taumhald á skapsmunum sínum. Ég kyssti hana í kveðjuskyni og hljóp og hljóp án þess að líta um öxl. Ég var þá hvorki barn né fullþroska maður, og lifði mest og hrærðist í óljósum framtíðargrillum, en skildi svo fátt af því ósagða, sem að baki lá. Guðríður lifði það sem eftir var ævinnar á heimilinu og dó þar fyrir eða um aldamótin hátt á áttræðisaldri. Til hennar var þetta meðal annars nýlega kveðið:

Nú eftir löng og liðin ár
ég lít með ró þitt ævisvið.
Þú valdir það sem var þér kærst —
Þú valdir góða hlutskiptið.

Baðstofan var rifin og reist að nýju með vorinu (1880). Viðir höfðu verði dregnir á hjarni úr kaupstaðnum um veturinn. Yfirsmiðurinn hét Guðmundur Snorrason, síðar góðbóndi á Dalnum. Man ég enn vísupart og kvæðalag, er hann sönglaði við hefilbekkinn. Ég var sí og æ í kringum hann og bjó mér til leikföng úr hefilspónunum. Fólkið flutti rúmföt og aðrar nauðsynjar í heyhlöðuna nema hjónaefnin, sem bjuggu í skemmuloftinu innan um kisturnar. Um vorið í fardögum kom séra Þorvaldur til að kveðja.

Hann hafði fengið brauð vestur í Húnaþingi. Man ég þá, að ég hafði hlaupið einn út úr bæjardyrunum og fann sjálfan mig hræddan undir voðastórum hesthausum á hlaðinu. Er ég þá gripinn á loft og tekinn á hestbak og svo þeyst úr hlaði. Sé ég enn brosandi andlit séra Þorvalds, þegar hann skilaði mér til baka. Þetta ár koma fyrstu greinilegu myndirnar, sem festust í huga mínum og ekki hafa máðst út, þó ein eða tvær svipmyndir frá enn fyrri tíma loði enn við.

Um sumarið, þann 11. ágúst, fæddist fyrsta barn þeirra hjónaefnanna og var nefndur Einar Páll. Þá var baðstofan öll þiljuð í hólf og gólf með hjónaherbergi fyrir stafni. 7. sept. um haustið giftust þau. Var þá orðinn prestur í Hofteigi séra Stefán Halldórsson, stjúpsonur Páls skálds Ólafssonar af fyrra hjónabandi. Tóftin undir palli var tjölduð ábreiðum, söðulklæðum og herðasjölum. Fór þar fram hin veglegasta brúðkaupsveizla og skírn um leið (?). Ég fékk eitthvað góðgæti að eta og stalst svo til að bragða á rommpúnsinu. Þá var ég gripinn á loft og drifinn í rúmið og þótti súrt í broti, ekki sízt um morguninn, þegar ég komst að því, að ég hafði sofið hjá elskulegri gamalli konu, sem ég var ósköp feiminn við. Stóð veizlan víst yfir alla þá nótt. — Seinna var þiljuð snotur gestastofa í austurenda undir palli, en kúnni var búinn bás að vestan með aukabás fyrir kálf og vatnstunnur.

Rúmu ári síðar en þetta skeði, þann 23. ágúst, 1881, fæddist þeim annar sonur, er hlaut nafnið Sigurjón. Um þetta bil er Elínborg komin norðan úr landi og sezt að á Háreksstöðum.

Á síðasta vetrardag, 22. marz 1885, fæddist síðasta barnið. Var það stúlka og skírð Anna María. Þá var heimilið orðið umfangsmikið og þröngt til húsa. Alls voru þar þá 14 manns að meðtöldum ungbörnunum. Má nærri geta, að mikils þurfti við, þótt sparnaður væri viðhafður. Að vísu unnu allir, hver á sinn hátt fyrir litlu eða engu kaupgjaldi. Eldri bræðurnir höfðu fáeinar kindur á fóðri í stað kaups, og við, þeir yngri, máttum eigna okkur eina kind og kaupa eitthvað fyrir reifið af henni. Fatnaður og búsáhöld voru að mestu heimaunnin og heimasmíðuð eins og síðar verður sagt. Ofan á þetta bættist svo ótrúlega mikill gestagangur, einkum á haustin og snemma vetrar og svo aftur á útmánuðunum, þegar straumurinn byrjaði frá sjávarsíðunni og upp til góðbændanna á Efra-Dalnum. Í illviðrum voru gestir oft veðurtepptir svo dögum skipti og um borgun á næturgreiða var aldrei að ræða. Föður okkar hefði víst þótt það undarleg fyrirbrigði.

**Upplausn.**

Skömmu eftir að María fæddist, fór að bera á geðbilun í Önnu, sem ágerðist mjög á næsta misseri þrátt fyrir ítrekaðar lækningatilraunir. Þegar af henni bráði síðar fór faðir okkar með hana í heimsóknir til frænda og vina, og í einni þeirri ferð varð hún eftir, en kom þá aldrei til baka. Leiddi það síðar til löglegs skilnaðar. Átti hún lengst af heimili á Seyðisfirði eftir það.

Um þessar mundir tók heimilið að riðlast enda þótt faðir okkar ætti enn eftir margra ára búskap á Háreksstöðum. Ísak fór til smíðanáms á Vopnafirði og brátt þar á eftir til Kaupmannahafnar. Um 1890 eða ári síðar fór hann alfari til Vesturheims (sjá Systkinaminning) Jón tók stutt námskeið í almennum fræðum og dönsku á Vopnafirði og Kirkjubæ, og fékkst við barnakennslu á vetrum, en taldi sér þó ávallt heimili á Háreksstöðum. Hann stundaði nám á Möðruvallaskóla árin 1893—1895. Hann stóð á fertugu, er hann dó snemma sumars 1904 — ógiftur og aldrei við kvenmann kenndur. Benjamín lenti í ástarævintýri við vinnukonu, er Margrét Jóhannesdóttir hét, og átti með henni dóttur, er síðar verður getið. Ári síðar fór hann í vinnumennsku að Arnórsstöðum. Hróðný Einarsdóttir bjó þar þá enn með ráðsmanni. Síðar fór hann að Hofteigi. Þar var þá orðinn prestur séra Einar Þórðarson. Á báðum þessum bæjum kynntist hann Jóhönnu Hallgrímsdóttur Benediktssonar pósts og Guðnýjar Hermannsdóttur skræks og kvæntist henni síðar. Þau byrjuðu búskap á Gestreiðarstöðum vorið 1894 og fluttu þaðan eftir tvö ár að Víðidal á Fjöllum. Vorið 1903 fóru þau að Háreksstöðum, eftir eitt ár þar að Sænautaseli, og þaðan til Vesturheims.

Gunnar fór í vinnumennsku um tvítugt og eftir þrjú eða fjögur ár á Möðruvallaskóla — sömu árin og Jón (1893—5). Laust fyrir aldamótin (líklega 1898) kvæntist hann fermingarsystur minni, Ragnheiði Stefánsdóttur, í Teigaseli á Jökuldal. Bjuggu þau víða á Austurlandi og seinast, að ég held, á Fossvöllum. Um eitt skeið höfðu þau gistihús á Seyðisfirði, sem brann. Á seinni árum átti hann heima á Akureyri og í Reykjavík, en þá mun kona hans hafa verið dáin. Hann var staddur í Hofteigi hjá einum sona sinna, er hann dó, 9. júlí 1957, þá 87 ára gamall. Þau Ragnheiður og Gunnar eignuðust tólf börn, sem öll náðu fullorðins aldri, og eru mesta myndarfólk.

Þórarinn hélt víst lengst af til á Háreksstöðum meðan faðir okkar bjó þar. Hann hneigðist snemma til söngnáms, hafði á yngri árum fagra söngrödd. Hann eignaðist brátt orgel og lærði að leika á það hjá ýmsum kennurum, þar á meðal Magnúsi Einarssyni á Akureyri og Brynjólfi Þorlákssyni í Reykjavík. Við urðum samskipa vestur um haf sumarið 1903 og settumst að í Winnipeg. Hann lærði rakaraiðn og stundaði auk þess smáverzlun hér og síðar í Seattle, Washington. Auk þess sá hann um kirkjusöng hér í Unitarakirkjunni og síðar vestra um tíma. Árið 1931 fór hann aftur heim til Íslands og settist að á Seyðisfirði. Þar dó hann 21. jan. 1941, ókvæntur og barnlaus.

Gísli (sá, er þetta ritar) fór að heiman vorið 1894 og gekk á Möðruvallaskóla þá um haustið, en útskrifaðist þaðan vorið 1896, þá tvítugur. Ári og hálfu síðar fór ég að læra prentiðn hjá Birni Jónssyni á Oddeyri. Hann gaf þá út blaðið Stefni. Fjórum árum síðar (1902) kvæntist ég þar Guðrúnu Helgu Finnsdóttur frá Geirólfsstöðum í

Skriðdal. Hún var systurdóttir Helgu, konu Björns prentara. Ég varð Þórarni samferða vestur, eins og að framan er sagt, og ári síðar kom Guðrún. Hef ég gert grein fyrir því á öðrum stað. Við eignuðumst 5 börn og dó yngsta dóttirin í barnæsku, en hin fjögur, sonur og þrjár dætur, eru á lífi hér vestra og öll gift hérlendu fólki. Guðrún varð bráðkvödd að kvöldi hins 25. marz 1946 á heimili okkar í Winnipeg. Hún var fædd að Geirólfsstöðum þann 6. febrúar 1884. Á seinni árum einkum, skrifaði hún allmargar smásögur, sem vöktu mikla athygli og urðu að maklegheitum vinsælar. (Sjá Hillingalönd, Dagshríðar spor og Ferðalok). Eftir að hingað kom, rak ég litla prentsmiðju fyrstu fimm árin. Eftir það stjórnaði ég prentverki fyrir stærsta lífsábyrgðarfélagið í Vestur-Kanada til vorsins 1946, er ég gaf upp fasta atvinnu (sjá Eimreið, júlí—desember, 1951).

Einar Páll og Sigurjón fóru til Reykjavíkur um aldamótin og stunduðu nám um tíma við Lærða skólann þar, en luku ekki prófi. Einar kom hingað vestur fyrir jólin 1913. Gerðist hann brátt ritstjóri við Lögberg með öðrum og síðar aðal ritstjóri til dánardægurs. Hann lék á orgel hér í Unitarakirkjunni um tíma, gaf út tvö ljóðakver og tók mikinn þátt í pólitík og öðrum félagsmálum. Hann dó eftir langvarandi sjúkdómslegu 27. maí 1959. Hann var tvíkvæntur, en barnlaus. Fyrri kona hans var Sigrún Baldvinsson, ritstjóra. Hún varð snemma sturluð á geðsmunum og dó eftir mörg ár á Geðveikrastofnuninni í Selkirk. Seinni kona hans var Ingibjörg Sigurgeirsson, ættuð úr Mikley í Winnipegvatni, af ættlegg séra Sigurgeirs Jakobssonar frá Grund í Eyjafirði; lifir hún mann sinn og tók við ritstjórn blaðsins að honum látnum (sjá Lögberg eftir lát hans, og Tímarit Þjóðræknisfélagsins 41. árgang, Eimr. og víðar).

Sigurjón fluttist hingað vestur frá Reykjavík vorið 1905 og settist að í Winnipeg. Rúmu ári síðar gekk hann á prestaskóla Unitara í Meadville, Pennsylvania og útskrifaðist þaðan 1910. Honum voru veitt verðlaun til framhaldsnáms og hlaut hann meistaragráðu í heimspeki við háskólann í Chicago árið 1913. Seinna það sumar fór hann alfari til Íslands og gekk inn í guðfræðideild háskólans þar. Að námi loknu var hann vígður til prests að Barði í Fljótum. Ári eða tveimur síðar fékk hann Kirkjubæ í Hróarstungu og var þar prestur um 40 ár við æ vaxandi vinsældir. Var svo uppgjafarprestur í Reykjavík. Kona hans heitir Anna Sveinsdóttir, skagfirzk að ætt. Þau áttu fimm vel menntuð og efnileg börn, öll uppkomin og gift hvert í sínu lagi. Þau skildu samvistum á seinni árum. Hann andaðist á heimili sonar sins í Reykjavík 15. maí 1965.

Hverfum nú um stund til baka. Sumarið 1904 tók sig upp hópurinn, sem eftir var á Háreksstöðum, Jón, Elínborg og María, og fluttu hingað vestur. Hafði faðir okkar þá búið þar í 32 ár og alls í Heiðinni 43 ár — allan sinn búskap á Íslandi. Tvisvar hafði hann sótt um jarðir í sveit, þegar seint og illa voraði í Heiðinni. En hún var orðin honum

svo kær og í blóð borin, að jafnskjótt og gróðurinn og sumarið kom, gat hann ekki umborið að slíta sig þaðan. Hann óskaði og hugði lengi vel, að hann ætti að bera þar beinin, þótt öðruvísi færi.

Fyrstu tvö eða þrjú árin hér vestra reyndi hann að hafa kúabú hér á útjaðri borgarinnar. Hann var þá kominn yfir sjötugt og gekk auk þess með líkamsbilun, sem hann neitaði að hafa uppskurð við. Gafst hann því brátt upp og fór ásamt Elínborgu út í Lundarbyggð. Hafði Benjamín þá setzt þar að sem síðar verður sagt. Hélt faðir okkar þar til á sumrin, en á heimili okkar Guðrúnar hér í borg að vetrinum allt til hins síðasta. Einhvern tíma fyrir jólin 1920 skrapp hann út í byggð og staðnæmdist hjá Benjamín og fólki hans. Eftir hátíðarnar fór hann að sjá einhverja kunningja sína og villtist á heimleið um kvöldið, svaf í heysátu um nóttina og kom ekki til húsa fyrr en undir morgun. Lagðist hann þá strax í rúmið og dó 22. febrúar 1921 á heimili Benjamíns. Hann var jarðsettur í grafreit byggðarinnar, þar sem Benjamín, Jóhanna og þrjú börn þeirra hvíla.

Árið 1905 kom Benjamín með konu og fimm börnum hingað vestur og var Sigurjón þeim samferða. Var það síðasti hópurinn af Hárekstaðafólkinu, sem vestur flutti. Þau fengu sér brátt bújörð í Lundarbyggðinni og eignuðust þar enn þrjú börn. Tvær elztu dætur þeirra dóu þar fyrsta árið, en elzti sonurinn, Jón, féll í fyrra heimsstríðinu á Frakklandi. Eins og áður er sagt, átti Benjamín dóttur áður en hann kvæntist. Hún hét Áshildur og vann hér í borg í nokkur ár, en giftist síðar þar úti í byggðinni og dó af barnsförum ásamt barninu. Benjamín lifði enn við tæpa heilsu og dó hér á spítala 12. jan. 1925. Jóhanna dó hér í bænum fjórtán eða fimmtán árum síðar. En fjögur börn þeirra búa víðs vegar hér í Kanada og eiga fjölda afkvæma.

María vann hér að ýmsu um skeið, en giftist árið 1917 Jóhanni Straumfjörð, úrsmið og skrautmunasala og fluttist með honum vestur á Kyrrahafsströnd. Þau eignuðust fjögur börn. Það fyrsta dó ungt, en uppkominn efnilegur sonur fórst í bílslysi. Tvær dætur uppkomnar og giftar eru á lífi. Elínborg, föðursystir okkar, lézt á heimili þeirra í Seattle hátt á níræðisaldri. María andaðist eftir langvinnan sjúkdóm 8. október 1949.

Anna, móðir Maríu, kom hingað vestur skömmu eftir aldamótin, og bjó um tíma með dóttur sinni. Hún dó hér í borg þann 5. júlí, 1913.

Kristbjörg, dóttir Guðríðar, sem var nokkurs konar fósturdóttir og seinna vinnukona, átti barn með Þorláki, öldruðum ekkjumanni, og fór á brott með honum í kringum aldamótin. Hún dó löngu síðar á Seyðisfirði, blind, á vegum sonar síns, að því er ég frétti hingað vestur.

*

Byggðin er nú öll horfin — heiðalöndunum verið skilað aftur til öræfanna. Segir H. S. í sögu sinni, að byggðin hafi enzt í 105 ár. Sumir bæirnir eru taldir byggðir hátt upp í öld. En flestir höfðu þó staðið í eyði um lengri eða skemmri tíma. Háreksstaðir voru byggðir samfleytt

í 83 ár og stóðu víst aldrei í eyði. Ábúenda skipti voru þar líka færri en á nokkrum hinna bæjanna, sem lengst stóðu. Þessi sorgar og baráttusaga Heiðarinnar verður sjálfsagt aldrei endurtekin. Þó er ekki óhugsanlegt, að efnaðir draumamenn í borg eða byggð kunni að reisa sér þar sumarheimili eða veiðikofa við Silungsvötnin silfurtæru, því enn á Heiðin, hin víðlenda og breiða, yfir þeim töfrum að búa á björtum sumarnóttum, sem ekki finnast í sveit eða á sjávarsíðu.



Efstaröð: Benjamín, Jón, Ísak. Miðröð: Gunnar, Þórarinn, Gísli. Neðstaröð: Einar Páll, Sigurjón, Anna María.

## II.

### Húsaskipan.

Frá þeim tíma, að Benjamín, afi okkar, kom á Jökuldalinn snemma á 19. öldinni og fram yfir aldamót, varð lítil breyting á húsakynnum manna — allt torfbæir, óhitaðir nema af blóðhita manna og dýra. Bærinn Veturhús, sem Benjamín reisti í óbyggð um miðja öldina, var víst engu lélegri en almennt gerðist til sveita. Hann hafði þá stóra fjölskyldu — um átta manns — svo talsvert húsrými þurfti. Sama hlaut að vera um Hárekssstaði. Tvær fjölskyldur settust þar að í upphafi byggðar og fjölguðu með árum. Þegar foreldrar mínir komu þangað, var þar húsrúm nóg, en farið að ganga af sér. Torfbæir endast ekki mjög lengi. En þeir voru ótrúlega hlýir, enda grafnir á parti í jörð og veggir yfir 3 fet á þykkt. Bæjarhúsin á Hárekssstöðum voru sex, áföst. Nyrzt var skemman með hvítu stofuþili. Þar var geymt allt, sem mátti frjósa, svo sem spaðkjöt og kornmatur. Uppi á lofti voru þrjár eða fjórar stórar eikarkistur með kúptu loki. Í sumum var kaffi, sykur og annar kaupstaðarvarningur, í öðrum betri fatnaður og lín. Næst voru bæjardyr, álíka stórt hús með timburfordyri — kallað forskyggni. Þar voru geymd reiðtygi, reiðingar og klyfberar, og þar hýstum við stundum ferðamanna hesta, þegar mest lá á. Syðst var baðstofan með alla glugga á suðurhlið, og er hún áður nefnd. Nyrzt, að baki skemmunnar, var heyhlaða. Fyrir miðju eldhúsið með helluhlóðum fyrir miðjum stafni og stórum strompi upp úr þakinu. Í röftunum lengra frá strompinum voru járnkrókar. Á þá var hengt kjöt til reykingar — hangikjöt. Aftar í eldhúsinu voru stórir taðhlaðar og fleira til eldsneytis. Á suðurhlið með hurð á milli, var búrið með skyrkeröldum og sláturtunnum. Undir glugga var búrsbekkur eða borð og búrskápur, sem áður hafði verið altari í Hofskirkju. Í milli framdyra og eldhúss voru stutt göng til baðstofu — og ekki má gleyma baðstofustrompinum, sem þaut svo hátt í hvassviðrum, að varla heyrðist mannsins mál. Þrjú fjárhús voru á útjöðrum túnsins, eitt hesthús og smiðja fram af hlaði. Eitt fjárhúsið var alltaf kallað Marteinshús í minningu um Martein Jónsson, sem flúði úr öskunni og dvaldi eitt ár á Hárekssstöðum áður en hann og kona hans fóru til Vesturheims. Hann dó úr bólunni í Nýja-Íslandi árið eftir.

### Heimilisstörf.

Þegar seint voraði og sólargangur var orðinn langur, komu leysingarnar með óskapa hraða. Landið varð allt að einni krapablá svo að segja á svipstundu. Kvíslin ruddist fram með jakaburði og hávaða.

„Jakarnir byltust á ýmsum endum og orgið og smellirnir grenjuðust á‘

kvað eitt skáldið á Dalnum um Jökulsá í leysingum. Sauðburðurinn byrjaði þá stundum í húsunum eða úti á hnjótunum og lömbin dóu unnvörpum. Voru þá skinnin skafin og spýtt og höfð í húfur eða seld fyrir fáeina aura. Verkum var nú brátt skipt. Sátu sumir yfir fénu á

meðan hætta stafaði af keldum og krapablám; aðrir báru áburðinn á túnið. Var hann mulinn með áhaldi, sem hét klára, og það kallað að berja á túni. Seinna var smíðuð taðmylla og vannst þá fljótara. Mylsnunni var rakað ofan í grassvörðinn. Afrak var það kallað, sem ekki gekk ofan í rótina, og var notað í eldinn. Áburðurinn var kúamykja og hrossatað. Flórinn var auðvitað hreinsaður á hverjum degi, en hesthúsið var venjulega mokað á föstudaginn langa. Var það eitt versta og óþokkalegasta verkið, og því unnið sem syndakvittun til að lina þrautir frelsarans. Löngu fyrir þann tíma voru börn hýdd í sama tilgangi, þótt þau hefðu ekkert af sér gert. — Sauðféð var innilokað allan veturinn og át snjó í stað vatns. Hestum og kúm varð að brynna. Yfir vatnsbólið urðum við að byggja snjóhús á vetrum og rann vatnið þar kristalstært á steinunum. Taðið í fjárhúsunum varð oftast meira en fet á þykkt og var stungið með rekum í stóra hnausa, klofið í skánar með taðspaða og þurrkað til eldsneytis. Stundum varð taðlaust að vorinu og urðum við þá að fara langar leiðir í sprekamó, eftir kalvið og uppblásnum hrís og bera heim á bakinu. Rifum við þá oft um leið tágar, sem birktar voru og klofnar og hafðar í ullarkörfur.

Þegar óhætt var talið, illviðra vegna, var féð rúið og ullin þvegin. Var stór pottur settur á hlóðir hjá kvíslinni og ullin soðin í keitu, sem safnað hafði verið seinni part vetrar og síðan skoluð í heimariðnum ullarkörfum í rennandi árvatninu. Þessi aldagamli ullarþvottur var samt seinna talinn ófínn og sams konar blanda þá keypt dýru verði í kaupstaðnum og nefnd ammoníak. Nokkru af hvítu ullinni og allri mórauðri og svartri ull var haldið eftir til heimilisiðnaðar. En mest öll hvíta ullin ásamt tólgarskjöldum frá haustinu, var seld í verzluninni í sumarkauptíðinni.

Nú komu fráfærurnar með átakanlegum lambagráti og rollujarmi, auk óendanlegs göngulags nótt og nýtan dag. Eftir fárra daga yfirsetu voru lömbin rekin á afrétt, en ærnar setnar á daginn og vaktaðar á nóttunni. Voru þær mjólkaðar kvöld og morgna og gáfu af sér geysimikla málnyt. Verkum var þannig skipt, að yngsti göngufæri drengurinn (stundum þó tveir) sat yfir á daginn, en sá næstyngsti að nóttunni. Þegar röðin kom að mér, var ég átta ára en Þórarinn ellefu. Sátum við báðir yfir að deginum, en Gunnar að nóttu til. Þegar ég varð 11 ára, sat ég einn að degi til, en Þórarinn tók við af Gunnari á nóttum. Á þessu varð engin breyting þangað til ég fermdist. Þá varð ég nætursmali, en Einar Páll og Sigurjón urðu dagsmalar. Þóttu þeir helzt til ungir og var því leyft að halda ánum meira í heimahögum en áður hafði tíðkazt. Synd væri að segja, að yfirsetan væri mér nokkur sólskinsdraumur að jafnaði, því skælandi fór ég oft á eftir ánum út í þokuna og regnið. Fyrsta sumarið, sem ég sat einn yfir, kom það eina þrumuveður, er ég sá eða heyrði á Íslandi. Ég sat hjá fossinum austur af Lindarseli og köstuðust þrumubrestirnir til og frá í milli klettanna. Ég varð hræddur, en

ærnar urðu enn hræddari. Þær hlupu í þéttan hóp, stungu saman snoppunum og sperrtu rófurnar út í loftið. Um þetta orti ég líklega mitt fyrsta kvæði. Jón bróðir minn sá það og hló að því, svo það fór í eldinn. Ég vissi þá ekkert um hraða ljóss eða hljóðs. Fyrstu hugmynd um það fékk ég, þegar ég einu sinni stóð á Helluhlíðinni og sá föður minn skjóta rjúpu spölkorn í burtu. Þá sá ég blossann úr byssunni löngu áður en ég heyrði skothvellinn. Helzta afþreyingin í yfirsetunni var að byggja mér smákofa, tína blóm, sem ég að vísu vissi lítil deili á, og vakta rjúpu-, lóu- og spóahreiðrin í móunum, þangað til ungarnir skriðu úr eggjunum. Þegar leið á sumar urðu ærnar hagaspakari og var þeim þá smalað til mjalta. En kl. 4 að morgninum varð ég samt að fara á fætur til að ná þeim eftir næturleguna. Varð maður þá strax rennvotur í fæturna í morgundögginni og það sem eftir var dags. Held ég, að þá hafi ég fengið liðagigt þá, sem um tíma stóð mér fyrir vexti og ætlaði mig lifandi að drepa, en eldra fólkið kallaði vaxtarverki.

Meðan á þessu stóð byrjar sláttsurinn. Orfum og ljáum þurfti að koma í lag, hrífur skeftar og tindaðar. Fyrst var þurrengi slegið í brekkum, hvömmum og lækjadrögum, þar næst túnið og síðast votengi í flóum og starartjörnum — rauðbreiskingur og ljósalykkja. Þegar snemma fraus á nóttunni að haustinu, slógum við störina á ís, og sukkum þá stundum upp í mitti, ef ísinn brast. Heyið var bundið í bagga og hengt á klyfberaklakka. Sáust þá naumast hestarnir í milli bagganna. Heyið var flutt heim til þerris, því óvíða hagaði svo til, að hægt væri að þurrka á engjunum. Ég var látinn flytja, því eldri drengirnir máttu ekki missast frá orfinu og hrífunni — gerði ekkert til, þó ég yrði að vakna kl. 4 að morgni til smalamennskunnar. Auðvitað lærði ég smám saman önnur heyverk. Um höfuðdaginn var hafður dálítill dagamunur og kallað töðugjöld.

Seint í september byrjuðu fjallgöngurnar og var þá margt um manninn. Vopnfirðingar höfðu frá ómunatíð sleppt fé sínu í Steinvarartunguna, sem taldist afrétt Hofskirkju. En Tungan náði aðeins að línunni milli Geldingalæks og Bruna. Þar fyrir sunnan var Háreksstaðaland. Eigi leið því á löngu áður en landið var orðið hvítt af vopnfirzku fé. Um það var þó ekki fengizt svo mjög, af því að það var gömul hefð og landið vítt. En þegar til réttanna kom, varð annað uppi á teningnum. Gangnaforinginn heimtaði, að allt féð væri rekið í Tungurétt, sem var eina lögréttin á því svæði. Okkur þótti súrt í broti að þurfa að fara fulla dagleið þangað til að ná í það af okkar fé, sem smalað var í heimahögum að öllum fornspurðum. Varð það því úr á endanum, að ein stærsta lautin í túninu var löguð til og gerð að rétt, þar sem við drógum úr fé okkar og nágrannanna. Þessari tilhliðrun var naumast hægt að neita, þar sem allur gangnamannahópurinn varð að gista hjá okkur í öllum fjallgöngum þeim að kostnaðarlausu. Lögrekstrar voru reknir bæ frá bæ og varð það til þess, að ég kom á fleiri

bæi í innheiðinni en ella, eftir að ég varð rekstrarfær.

Upp úr göngunum kom sláturtíðin. Stórhópar af fé voru reknir í kaupstaðinn auk þess sem slátrað var heima. Það voru leiðinlegir dagar fyrir okkur yngri drengina. Við vorum aldir upp með fénu og féð með okkur. Við þekktum ætterni hverrar skepnu og allar ærnar með nafni og þótti því súrt í broti, að sjá þær fara undir hnífinn. Seinna var þessu hvimleiða verki að nokkru létt af fjáreigendum eftir að Slemon og Zoellner fóru að kaupa féð á fæti.

Á Vopnafirði var þá lengst af ein verzlun. Örum & Wulff hét hún og var auðvitað dönsk, enda þótt faktorarnir væru íslenzkir á seinni tíð. Þetta var algerlega viðskiptaverzlun — höndlun var hún þá nefnd. Peninga fengu fáir nema þeir, sem meira lögðu inn en þeir tóku út. Þarna var ótrúlega margt á boðstólum — allt frá matvöru alls konar, álnavöru af ýmsri gerð og niður í potta, pönnur, kol, salt, netjagarn, kaðla, snæri og stangajárn af ýmsum stærðum. En mikið af þessum varningi hafði eitt sameiginlegt — hann var aðeins hálfunninn til afnota. Kornmatur var ekki malaður, en kvarnir fengust til heimabrúks. Járnið fékkst ekki í skeifum eða hestskónöglum, en nauðsynlegustu smíðatól fengust. Stálsoðnir ljáir seldust, en þá þurfti að dengja heita í smiðju. Þeir voru kallaðir spíkur, og voru tvær spíkur til, sem við yngstu drengirnir lærðum að slá með. Aðalljáirnir voru að vísu ensku ljáblöðin, stundum nefndir Torfaljáir. En á þau þurfti að smíða bakka. Og svo var um fleira. Af þessum framangreindu ástæðum leiddi það, að á hverjum meðalbæ hlaut að vera til smiðja, — og vatnsmylla, ef vel hagaði til um læki eða vatnsafl.

Vatnsmyllan okkar var mesta dásemdarverk. Ég hef ekkert séð henni líkt fyrr eða síðar. Líklega hefur hún að einhverju leyti verið erfðafé frá fyrri ábúendum — að minnsta kosti mylluhúsið sjálft, sem allt var grænt og grasi gróið að utan. Það var í tveimur hæðum. Undir gólfi var vatnshjólið — spjaldakarlinn — úr á að gizka 10—12 þumlunga þykkum sívölum rekadrumb, og voru spjöldin greypt inn í hann skáhallt með járngjörð að utan til að halda þeim í skefjum. Neðan í honum var stálnybba, sem lék í steinholu í botni, en upp úr honum gekk járnás sívalur (möndullinn) í gegnum gólfið, kvarnakassann og neðri kvörnina. Var stálásinn ferstrendur í toppinn og féll þar á löðin, sem fest var neðan í efri kvörnina þvert yfir kvarnaraugað. Kvarnakassinn var nægilega rúmur til að halda dags mölun. Efst að baki var ferstrendur tregtlagaður kassi, sem hélt ómalaða korninu. Nafninu á honum hef ég gleymt. Á neðri enda hans var festur mjór skinnsokkur með frammjórri trétúðu neðst, sem hallaðist fram yfir kvarnaraugað og spúði korninu inn, þegar kvörnin snerist. Myllunni var hleypt af stað að morgni, en stöðvuð á kvöldin. Man ég, að faðir okkar malaði stundum fyrir nágrannana á Mel og Gestreiðarstöðum. Áður en lækjargilið fylltist af snjó voru kvarnirnar fluttar heim og vatninu

hleypt úr rennustokknum. Möluðum við yngri strákarnir í þeim í viðlögum að vetrinum. Þegar enska verzlunin tók að flytja inn malað korn fyrir lægra verð en það ómalaða, hætti vatnsmyllan og veit ég nú ekkert um síðustu afdrif hennar. En síðan heyri ég aldrei né raula lög Schuberts úr „Malarastúlkunni" svo að ég ekki heyri í anda myllulækinn á Háreksstöðum gutla á steinunum og suða á spjaldakarlinum.

Smiðjan kom víst eins og vatnsmyllan að erfðum frá fyrri ábúð. Miðstöð hennar er aflinn — hellulagt eldstæði með hærri hleðslu að baki, ekki ósvipað stól eða setbekk í lögun. Belgnum er óþarft að lýsa. Smábelgir líkir að lögun fást enn í sumum búðum. Járnstúturinn, þó tiltölulega lengri, náði í gegnum aflinn að eldstæðinu. Yfir höfði hékk ráin í hömlu ofan úr rjáfrinu — var hún tengd að aftan við neðri blökk belgsins með ólarspotta, en í fremri enda var hanki fyrir hendi þess, sem blés. Með því að toga og lyfta ránni upp og ofan, blés belgurinn í glóðirnar. Fyrir framan aflinn var steðjinn með saumhögginu í öðru nefinu, reksleggjan og töngin með herzlustokk fullan af vatni á gólfinu. Þarna smíðaði faðir okkar nálega allt sem til búsins heyrði: ljábakka, skeifur, hestskónagla, orfhólka, gjarðir og skónálar, sem aldrei fengust í kaupstaðnum. Lét hann mig blása og stundum sverfa á nálarnar fjaðrirnar og fága innan augað, sem drepið var á stálið rautt með lítilli stálstöppu. Hann hefur að líkindum haldið, að úr mér yrði smiður, en sú von brást. Þegar ég óx upp, varð ég eins óhandlaginn til smíða og flestir hinir bræður mínir. Seinna féll smiðjan í vanrækt, eftir að svo að segja öll búsáhöld fóru að flytjast inn í landið tilbúin að meðtöldum skeifum og nöglum. Eitt verk fór þar þó lengi vel fram. Í sláturtíðinni féllst alltaf til kynstrin öll af kindahausum og fótum. Það var allt sviðið í smiðjunni. Elínborg annaðist jafnan sviðin. Hún sagði sögur betur en nokkur annar, sem ég hef þekkt. Hún tældi okkur, Þórarin og mig, til að blása með því að segja okkur sögur. Það gerði ekkert til, þó við hefðum heyrt þær oft áður — við vorum alltaf jafnsólgnir í þær. Eina sögu þótti mér sérstaklega í varið — söguna um Brúsaskegg, þetta hámark allrar þolinmæði, sem gerir Job að nöldrunarsegg í samanburði. Þegar kom að hendingunni: „Stendur í brekku Brúsaskeggur og bíður mín þar", stóð ég gapandi og hætti að blása. Blástu strákur! kom þá inn í söguna. Einhver álíka strákhnokki hefur eflaust haldið í rána við hlið fornskáldsins sem kvað um hreysti sína og vígaferli í smiðjunni:

Ek bar einn af ellifu
banaorð. Blástu meir!

Eitt var það verk, þýðingarmikið fyrir hag heimilisins, er aldrei var rekið sem aðalverk — ávallt sem aukaverk eða hjáverk, en það var silungsveiðin. Hún tók aldrei tíma frá heyskap eða fjárgeymslu. Við áttum ferju, sem ekki var stærri en svo, að einn hestur gat dregið hana á milli vatnanna. Net voru öll heimaunnin. Reið faðir okkar þau

að vetri og vori til, og kenndi víst öllum sonum sínum. Er það víst eina verkið frá þeirri tíð, sem ég gæti enn unnið, ef riðinn og netnálin væru handbær. Aldrei man ég samt til, að aðrir bræður mínir skiptu sér af veiðunum. Faðir okkar gerði það oftast einn, en tók mig samt oft með sér. Um og eftir fermingu, þegar hann var þreyttur eða hafði öðru að sinna, vitjaði ég stundum netjanna einn og blístraði á heimleiðinni í kvöldkyrrðinni mér til hughreystingar með silungakippu í báðum höndum. Þegar ég las um Bjart í Sumarhúsum, datt mér í hug, að skáldinu hafi þótt sögulegra að tala um saltan steinbít, sem í raun og veru hefði þó átt að vera silungur. Af honum höfðu flestir Heiðarbúar, sem til vatna náðu, að jafnaði nóg.

Því mætti og bæta við, að faðir okkar átti haglabyssu, framhlaðna, sem hann fékk að erfðum frá föður sínum. Með henni aflaði hann oft matar í búið. Hann var víst fremur góð skytta, eftir því sem þá tíðkaðist. Hann skaut rjúpur á vetrum og endur og aðra vatnafugla síðsumars. Tvisvar a. m. k. fór hann á hreindýraveiðar, áður en þau voru friðuð. Hann hafði byssuna með sér vestur og skaut akurhænur og héra úti í byggð eftir áttræðisaldur. Enginn bræðranna fékkst til að bera byssu.

Á hverju vori var lengi vel gengið til grasa, vanalega í þoku og súld. Fjallagrösin sáust þá bezt. Aldrei þótti okkur þau samt góð nema helzt í mjólk, ef mjólkin var soðin þangað til hún varð ljósbrún á lit. En kræðusnúðar var herramannsréttur.

Á haustin var staðið yfir fé eins lengi og nokkur hagbeit var. Þegar allir gripir og fé var komið í hús, byrjaði fengitíðin. Var við það mestu reglu fylgt. Hrútar og ær voru valin saman eftir holdafari, ullargæðum og mjólkurmagni ánna. Nöfn ánna með hverjum hrút voru skráð í bók og svo eftir sauðburð að vorinu var bætt aftan við lit og kynferði lambsins, og til vara merkt með ýmislega litum spottum. Allir vissu allt um tímgun dýranna og hneykslaðist enginn á. Það hefðu víst þótt bjánalegar sögur, sem nú eru sagðar börnum um fljúgandi storka með börn í vasaklút og hvolpa og lömb smíðuð í höndunum, sem minnir á sögu, er höfð var eftir Pétri Jökli á Hákonarstöðum. Hann sagði aldraðri konu þar á heimilinu, sem dæmi um framfarir vísindanna, að nú væri farið að búa til börn í vélum, svaraði kerling þá: „Öllum skrattanum taka þeir upp á; mér fannst það þó fara nógu vel upp á gamla móðinn.“

Á sumrin var víst sjaldan litið á klukku. Gömul stundaklukka hékk þó á baðstofuþili. Við útivinnu heima var farið eftir eyktum, ef til sólar sá. Frá því stöfuðu nöfnin Dagmálamelur, Hádegishóll, Nónvik, Náttmálaöxl o. s. frv. Seinna keyptu eldri bræðurnir úr til að hafa á engjunum — þeim þótti víst faðir vor standa full lengi við orfið.

Þegar daginn stytti, þurfti að neyta ljósa. Í skammdeginu var sofið um stund áður en kveikt væri; var það kallað rökkursvefn. Frá ómunatíð og fram yfir miðja öldina

var fátt ljósa nema lýsiskolan, sem sumir kölluðu grútarlampa. Það eitt út af fyrir sig er einkennilegt, að olían úr fisklifrinni hefur öðlazt nafnið lýsi í málinu. Tvenns konar kolur voru brúkaðar: Skaftkolan og hengikolan, og er hin síðarnefnda enn til sem stofudjásn. Skaftkolan var borin um bæinn, en hin hékk á vegg eða rúmstuðli. Heimaspunninn fífukveikur lá í lýsinu og fram í vörina. Var kveiknum ýtt framar í vörina með stíl, er hékk á kolunni, ef ljósið dapraðist. Hét það að skara að ljósinu. Af því stafaði líka máltækið: Nú þykir mér týra á skarinu, ef einhverjum blöskraði eitthvað. Kerti voru heimasteypt úr harðri tólg, stundum með þremur álmum, en mest til hátíðabreytingar á jólunum. Öllum var þá gefið kerti ásamt nýju fati eða flík, svo enginn færi í jólaköttinn. Steinolía fluttist ekki inn til ljósmatar fyrr en eftir miðja öldina. Því þótt olíulindir væru þekktar frá alda öðli og brynnu sums staðar ofanjarðar, sem gaf hugmyndina um hina helgu elda í Austurlöndum, þá var það ekki fyrr en 1854—60, að mönnum tókst að hreinsa svo jarðolíuna, að hún yrði nothæf til ljósa. Fyrstu lamparnir voru smáir með flötum kveik. En síðar fengum við hringbrennara, sem hékk í keðjum niður úr sperrubita. Undir honum var setið við lestur. Eftir að kolurnar féllu í vanrækt, voru týruljós (glös) mest brúkuð fyrir gönguljós, en einnig sett á rúmstuðla hjá spunakonunum.

Um þetta bil hefst tóvinnan og tók víst allt fólkið þátt í henni. Sumir tóku ofan af, þ. e. aðskildu togið og þelið. Þeir yngstu táðu, aðrir kembdu og lyppuðu í lár. Kvenfólkið spann og hespaði, aðrir undu í hnykla. Þelbandið var fyrir nærsokka, trefla, herðahyrnur og allan vefnað. Togið fór í snjósokka, söðul- og klyfberagjarðir. Hestum var skorin mön og hárið spunnið á handsnældu og fléttað í reipi. Þetta var okkur öllum kennt að vinna, í einn tíma eða annan. Hrútshorn voru hituð við eld og tegld til í reiphagldir; einnig voru þær búnar til úr selju eða einhverjum seigum við. Ef nautshorn féllu til, voru smíðaðir úr þeim spænir. Við áttum spónalöð, en enginn kunni að skera á sköftin höfðaletrið. Tóbak var skorið á tóbaksfjöl, þó enginn tæki í nefið. Það var haft í smyrsl á sauðféð áður en kreósót-baðlyfin fluttust inn.

Kvenfólkið prjónaði og áttum við líka að læra það, en lengra komst ég aldrei en að prjóna lodda eða íleppa í skó. Prjónles var þó enn tíðara á dögum afa og ömmu, en síðar var. Þannig kvaðst faðir okkar hafa staðið yfir fé á Veturhúsum í einni prjónabrók — að vísu þykkri og svellþæfðri. En vefnaður hlaut þó að hafa verið algengur, því yfirleitt gengu allir í vaðmálsfötum, og vaðmál var gjaldeyrir frá fornöld. Smábændur hafa líklegast fengið band sitt ofið á stærri heimilum, sem áttu vefstóla. Enda voru í hverri sveit menn, sem báru nafnið „vefari“.

Eftir því sem fólkinu fjölgaði á heimilinu, hlaut að því að draga, að vefstóll yrði fenginn. Hann kom nokkru eftir að ég fyrst man eftir mér, með rakgrind og öllum nauð-

synlegum áhöldum. Æfður vefari var fenginn til að setja upp vefinn og vefa, og jafnframt til að kenna föður okkar. Ég var smæstur, að fráskildum ungabörnunum, svo mér var stungið aftan í vefstólinn, undir rifinn, sem uppistaðan var undin á, og kennt að láta í höföld og þræða skeið. Á fermingaraldri var ég búinn að læra að rekja og setja upp vef, og smám saman fór ég að vefa — lærði þó aðeins vaðmál og einskeftu og varð aldrei fljótur. Ekki man ég til að neinn bræðra minna ætti neitt við vefnaðinn. Úr vefstólnum var vaðmálið rennbleytt í heitu sápuvatni og þæft á tréhlemm undir berum fótum — nefnt fótaþóf. Var sumt litað í hellulit og sortulyngi, einkum fyrir spariföt. Í tíð afa og ömmu voru betri föt sortulituð, en það gerðu helzt prestar og ríkisbændur. Meðal fátæklinga þótti það óviðeigandi fordild, sem sjá má af vísunni:

Þó að skorti fæðuföng
fötin sortulita.

Sortan var einhvers konar járnsýringur, sem fékkst í mýrarkeldum og kostaði því ekkert.

Um það bil að ég fór að heiman, voru mörg heimili farin að klofna og heimilisiðnaður því torveldari. Fóru bændur þá að senda ullina til Noregs í tóvinnuvélar þar og fengu til baka vel úr garði gerða dúka. Ekkert veit ég hvað um vefstólinn varð eftir að ég hvarf á brott.

**Skemmtanir og bóklestur.**

Skemmtanir voru ekki margar eða breytilegar í þá daga. Einstöku sinnum leyft að fara í kaupstað. Ein kirkjuferð á hestbaki á sumrinu. Faðir vor var hestsár meðan á heyönnum stóð. Stundum kynnisferðir á næstu bæi. En oft vorum við lánaðir þangað, ef einyrkjarnir þar þurftu að fara að heiman. Útreiðartúrar voru þó tíðir þá og fyrr til sveita, og var þeim oft samfara allmikil drykkjuskapur. Faðir okkar var stakasti reglumaður. Ég sá hann aldrei undir áhrifum víns. Hann keypti fjögra potta kút af brennivíni í sumarkauptíðinni, sem entist allt árið — mest fyrir betri gesti, sem kallað var. Enginn bræðranna neytti áfengis á heimilinu nema lítillega til hátíðabrigðis, og tveir voru bindindismenn lengst ævinnar, þó lagði hann aldrei neitt bann við vínnautn.

Bókakostur var ekki mikill, þegar ég fyrst man til. Samt bættist smám saman ýmislegt við. Ég lærði að lesa á Nýjatestamentinu, latínuletrið, en þýzka letrið á Hallgrímskveri og Viðeyjarsálmabókinni. Það sem við ekki áttum af bókum, fengum við að láni hjá bókamönnum og síðar lestrarfélaginu á Dalnum. Með þessu móti lásum við víst flestar ljóðabækur þess tíma og kann það að hafa orðið til þess, að ég og síðar Einar hneigðumst snemma til vísnagerðar. Einnig höfðum við sumar fornsögurnar, Þjóðvinafélagsritin, Sjálfsfræðarann, Iðunni, Mann og konu og fleiri rit auk Þjóðólfs og Fjallkonunnar. Þá má ekki gleyma Alþýðubókinni, sem lesin var upp til agna. Rímur voru og til á heimilinu, t. d. Númarímur, en enginn kvað þær þó. Einu sinni sem oftar gisti Þorsteinn Þórðarson

og kvað allar rímur Þorsteins Uxafótar á einni kvöldvöku. Hann hafði áður búið í Heiðinni. Guðsorðabækur voru auðvitað til, fyrst og fremst, en ekki töldum við þær til skemmtilesturs. Faðir okkar las húslestra á hverju kvöldi allan veturinn og á sunnudögum allan ársins hring. Hann var fyrirtaks lesari. Hugvekjur og bænir las hann með mestu andakt, en Vídalíns postillu las hann nærri í jötunmóði, enda kunni hann utanbókar rokur úr henni. Við strákarnir urðum að passa okkur að líta aldrei hver framan í annan meðan á lestrinum stóð, því fátt var stærri synd en að hlæja undir lestrinum. Faðir okkar hafði hreina og viðfelldna söngrödd fram eftir aldri og byrjaði hann lengi vel sálmana. Seinna lenti það á Þórarni og mér í samlögum. Á föstunni voru allir Passíusálmarnir sungnir og kom það mest, að mig minnir, á okkur báða. Ég man alltaf með hve miklum vilja og krafti Þórarinn söng síðasta versið: Dýrð, vald, virðing og vegsemd hæst. Kann hrynjandi rímsins að hafa átt einhvern þátt í því, en meira þó vissan, að allt þetta sálmasöngl væri á enda. — Við misstum snemma trúna á kreddur og erfðakenningar kirkjunnar. Eigi að síður bárum við lotningu fyrir því, er okkur skildist háleitt og fagurt í bókmenntum og sið kirkjunnar og heiðninnar. Faðir okkar fékkst aldrei mikið um trúleysi okkar. Ráðvendni, hófsemi og gott siðferði var honum framar öllu öðru, enda setti hann þar hógvært og óskeikult fyrirdæmi. Ef honum þótti eitthvað ganga guðlasti næst, gat hann orðið hvass í bragði; en hann var að eðlisfari hversdagsgæfur og hataði allt þrátt, — var viðkvæmur og blíðlyndur, en mátti þó sem minnst láta á því bera heimilisagans og tíðarandans vegna.

**Menntunartilraunir.**

Menntun var af skornum skammti og skilyrðin fá fram á síðasta fjórðung 19. aldarinnar, það er að segja fyrir alþýðu manna. Öllum, með nokkurn veginn fullu viti, var kennt að lesa, svo hægt væri að troða í þá kristindóminum. Flestir lærðu einnig að draga til stafs, en þó mest af sjálfum sér og oft í trássi við heimilisfeðurna. Einkum þótti það óþarfi með kvenfólk. Elínborg sagðist hafa stolizt til að klóra á blað með hrafnsfjöður og sótbleki. Í öllum sveitum voru þó eitt eða fleiri heimili, sem stunduðu ýmsar fræðiiðkanir. Mun Hákonarstaðaheimilið hafa verið eitt hið helzta á Dalnum í tíð afa og ömmu. Má vera, að Ísak hafi orðið fyrir nokkrum áhrifum þaðan enda þótt hann væri nokkurn veginn fulltíða, er hann kom í Heiðina. Reikningskennsla mun hafa verið fágæt, en einstöku menn voru ótrúlega fimir í bolareikningi, sem nú mundi nefndur hugarreikningur. Faðir okkar bjargaði sér á fyrri tíð mest á þann hátt. Einn mann þekkti ég, sem var undrabarn í þeirri list og var hann þó lítt læs og dró ekki til stafs — nábúi okkar Eiríkur Einarsson á Mel. Hann var líka fyrirtaks tóu- og hreindýraskytta. Fóru þeir, faðir minn og hann, á hreindýraveiðar inn á öræfi oftar en einu sinni. Um það orti ég, en það var

kölluð hvefsni og fékk skjótan dauðdaga.

Ef prestarnir voru alþýðlegir og fróðleiksfúsir menn, bárust frá þeim andlegir straumar. Hofteigs prestar létu sér víst flestir nægja að messa og gera önnur lögskyld prestsverk. Þegar Benjamín, afi okkar, kom á Dalinn, var þar prestur Sigfús Finnsson. Af honum gengu ýmsar sögur, og er þessi ein. Á Skeggjastöðum öndvert Hofteigi bjó bróðir hans. Einn sólbjartan sunnudag kom prestur út úr kirkjunni frá messu og sér Skeggjastaðafólkið við heyþurrk hinum megin ár. Verður honum þá að orði: „Þetta má ég sjá — Guðmundur bróðir minn er að bjarga sér meðan ég verð að standa í þessum andskota.“ Næsti prestur var séra Þorgrímur Arnórsson. Hann var skörungur mikill í bú- og sveitarmálum, drykkfelldur, en þó almennt vel liðinn, einkum hjá húsfreyjunum. Síðar skipti hann brauði við séra Þorvald Ásgeirsson á Hallormsstað, sem áður er nefndur, og gifti hann einni dóttur sinni. Þá verður næst prestur séra Stefán Halldórsson, og er hans líka getið fyrr. Enginn þessara presta virðist hafa reynt að víkka sjóndeildarhring sóknarbarna sinna. Presturinn, sem fermdi mig í forföllum sóknarprestsins, var fræðimaður á ýmsan hátt, en þó sá hann sér ekki fært að hrófla neitt við sköpunarsögu biblíunnar við spurningarnar, og vissi þó vel, að flest börnin höfðu haft aðgang að hinum nýrri fræðiritum í náttúrufræði um þau efni. Það er ekki fyrr en eftir 1890, er Einar Þórðarson varð prestur í Hofteigi, að veruleg menningaralda fer um Dalinn. Hann var bæði víðsýnn og frjálslyndur maður. Samt var nú strax á fyrstu prestsárum séra Stefáns gengið ríkara eftir, að fræðslulögunum væri fylgt. Voru þá umferðakennarar fengnir á heimilin. Einum þeim kennara man ég eftir. Hann hét Guðmundur, vopnfirzkur. Hann átti að kenna skrift og reikning — allir voru læsir. Hann var glaðsinna og hafði gaman af kappræðum. Umræðuefnin voru einkum forlög og frívilji, trú og vísindi, þó enginn vissi mikið um þau efni. Í Alþýðubókinni var löng grein um Höfuðskepnurnar — jörð, loft, vatn og eld, sem líklega þætti ekki mikil vísindi nú; og í Balles lærdómskverinu, sem við eldri bræðurnir allir lærðum, var þessi meistaralega vísindagrein, sem ég man enn: „Á jörðinni teljast hérum 25 þúsundir lifandi skepna af ýmsum tegundum, auk fugla, fiska, orma og skorkvikinda.“ Höfundurinn hefur líklega ekki treyst sér til að telja alla fiskana, að maður þá ekki nefni mýflugurnar og ormana.

Um seinni tíðar menntunartilraunir er áður lítillega talað. Þó er ekki úr vegi að gera hér stutt reikningsskil. Benjamín gaf upp alla von um frekari menntun en krafizt var til fermingar. Hann var vel skynsamur, en óframfærinn og lengi heilsutæpur. Ísak fór til útlanda og lærði húsbyggingar, húsgagnasmíði, og dráttlist á kvöldskóla. Hann hafði og góða greind. Jón og Gunnar gengu á Möðruvallaskóla. Jón var hygginn og skynsamur maður, en ekki bráðfljótur námsmaður. Hann þjáðist mjög af höfuðverk síðara námsárið, las samt fram

á vor, en gekk ekki upp í prófi. Allt, sem honum var að líkindum vant, voru góð gleraugu. Hann var sá eini í ættinni, sem skrifaði fagra rithönd. Gunnar var honum samtíða í skóla, en honum ólíkur að skapferli, gleðimaður, dansari góður, hestamaður og kvennagull, hafði afarsterka baryton söngrödd á yngri árum, en vanrækti að fága. Honum lét ekki bóknám, þó var hann bezti stærðfræðingurinn í bekknum. Hann fór í hestabrall um vorið og gekk ekki heldur undir burtfararpróf. Þórarinn lagði fyrir sig hljóðfæraslátt og kirkjusöng og verklega iðn eins og áður er sagt. Hann gekk og á kvöldskóla um eina tíð í Reykjavík.

Um þetta bil voru þrír búnaðarskólar í landinu og tveir gagnfræðaskólar. Einhver skuggi hvíldi samt lengi vel yfir þeim í almenningsálitinu. Bændurnir sögðu, að synir þeirra frá búnaðarskólunum kynnu minna í búfræði en þeir sjálfir. Gagnfræðanemendurnir voru kallaðir hálfmenntaðir uppskafningar, sem til einskis væru hæfir nema þá helzt til að troða í krakka. Reynslan sýndi samt, áður en langt leið, að fjöldi þeirra urðu nýtustu menn hver í sinni sveit. Ég varð því sá síðasti, er það nám stundaði og gerðist brátt prentari. Ef til vill hefur þetta almenningsálit átt einhvern þátt í því, að yngri bræður mínir fóru báðir til náms við Lærða skóla Reykjavíkur. Því miður auðnaðist hvorugum þeirra að ljúka þar námi. Mun það að nokkru hafa stafað af óeirðum þeim, sem risu milli skólapilta og rektors skólans um þær mundir. En þegar það skeði, voru allir aðrir í ættinni á brott úr Heiðinni.

**Niðurstaða.**

Föður okkar var sjaldan getið í ræðu eða riti. Hans fórnandi máttur var hljóður, eins og segir í kvæðinu. En í raun og veru var hann þó hinn ókrýndi konungur Heiðarinnar. Þar gerðist hans ævistarf, sem í raun og veru lauk, er hann hafði komið níu börnum til fullorðinsára, án utanaðkomandi styrks eða hjálpar. Flestum öðrum hafði Heiðin orðið að falli eða aldurtila. Til samanburðar gæti ég nefnt fleiri en einn Heiðarbúa, sem flosnuðu upp og fóru á sveitina með einu eða tveimur börnum. Einn slíkan dreng ól faðir okkar upp um lengri tíma, foreldrum og sveitinni að kostnaðarlausu. Í söguköflum um Jökuldælinga fyrir, um og eftir öskufallið, stendur þessi stutta málsgrein: „Þar (á Háreksstöðum) bjó þá Jón Benjamínsson með mikla ómegð, sæmdar og atorkumaður.“ Þetta skrifaði náfrændi mannsins, sem í eina tíð reyndi mest að ófrægja föður okkar. En þessum góða dreng gat auðvitað ekki dottið í hug, að mitt í ómegð getur maður verið auðugur. Uppeldi níu barna til þroskaaldurs er engin smáræðis auðsöfnun, eins og einn mesti hagfræðingur landsins sagði, er hann gisti hjá okkur á síðari árum mínum heima.

Er með þessu saga Heiðarbúans og ættmenna hans á enda — saga óaflátanlegs strits, sorga, mannrauna og vonbrigða, — ófeað þó margra fullnægju og ánægjustunda — og við síðustu reikingsskil óviðurkennd sigursaga.

**RICHARD BECK:**

# Svipmyndir frá sjávarströnd

(Ort á Vancouvereyju síðastliðið sumar)

## REKATRÉÐ

Við yzta haf á annarlegri strönd,
þess ævi fjarar hratt í tímans djúp,
en liðnu árin hyljast gleymskuhjúp
og horfin öll þess draumabjörtu lönd.

Það prýddi áður yndisríkan skóg
og eikin fegurst var í grænum lund;
það breiddi arma yfir sólkysst sund,
í sinni tign við kvöldsins stjörnum hló.

En gæfan brást, því hríðarköstin hörð
það hröktu langt á æstan reginsæ,
sem, rótlaust, lengra burtu bar það æ
frá blómgri grund og hlýrri móðurjörð.

Að lokum fleygði hafstraums kalda hönd
því hátt á sand í klettaberum vog;
við brimsins ekkaþunga öldusog
það á sinn hinzta dag á fjarri strönd.

## RADDIR HAFSINS

Hlusta ég á hafsins
harms- og gleðisögur,
fagnaðsljóðin fögur
fléttast sorgarbrag.
Sokknum skipum syngur
særinn tregalag.

Hetjuraddir heyrast
hljóma í ölduslögum.
Löngu liðnum dögum
lyftir hrönn úr sæ.
Svífa fyrir sjónir
segl í vetrarsnæ.

Þung er undiralda,
yzt á skerjum brýtur;
fley þar strandað flýtur.
Feigðarbáran köld
rís, en harmleik hylja
húmsins þöglu tjöld.

GÍSLI JÓNSSON:

# Orð í belg um Vínlandsfundinn

Fyrir skemmstu rakst ég á 36 ára gamalt rit í fórum mínum, sem ég annaðhvort hafði gleymt eða vanrækt að lesa. Þetta var Vínlandsferðirnar eftir Dr. Matthías Þórðarson, sem nú er fyrir nokkru látinn. Ritgerðin virðist fylgja mjög sömu skoðunum, sem áður höfðu oft komið fram, og verður því ekki endurtekið neitt af því beinlínis hér. Bókinni til skýringar eru þar nokkur sjókort, sem skýra eiga siglingaleiðirnar, og verður e. t. v. minnzt á þau síðar. Bent er þó hér á ýmislegt, sem mér hafði áður komið til hugar, en ekki þorað að nefna.

Þetta varð til þess, að ég fór að bera hana saman við greinina í síðasta árs Tímariti, eftir skáldið og rithöfundinn Benedikt Gíslason frá Hofteigi. Stingur þar mjög svo í stúf. Þó er báðum, að því er mér virðist, það sameiginlegt, að leggja of bókstaflega áherzlu á stefnur og strauma, ár og eyjar, sem til eru í tugatali á þessum slóðum, þótti fæst af því beri nöfn eða sé merkt á kortinu. Matthías er hlutlausari, og trúgjarn yfirleitt á sögurnar, en um hina verður maður við fyrstu yfirsýn hálfundrandi, hversu kalt virðist anda til sagnanna og sagnaritaranna. Gys er jafnvel gert að tvísögli sagnanna, yfirstéttarhroka í ættfærslum, og uppnefnunum. Ekkert er þó eðlilegra en ósamkvæmni í frásögnum, sem gengið hafa í manna minnum í tvö hundruð ár eða lengur, en með því þarf samt aðalkjarni sögunnar ekki að vera hreinn uppspuni. Allir vita, að jafnvel tveimur eða fleiri sjónarvottum ber aldrei algjörlega saman um sama atburðinn. Varla getur það talizt hroki, þótt merkra manna af ættstofni forfeðranna sé getið hjá þjóð sem frá upphafi vega hefir drekkt sér í ættfræðigrufli. Ekki er heldur ástæða til að véfengja sögu Leifs um Vínlandsfund fremur en sögu Eiríks um Grænland. Leifur var án efa sjógarpur eins og fleiri norrænir menn á þeim dögum og hann varð fyrir því láni að bjarga skipbrotsmönnum í sjávarháska. En hann var friðsemdarmaður og hvarf því brátt af sviðinu. Um uppnefnin er það að segja, að þau einkenna allar Íslendingasögur, og er því Leifur heppni og Vínland hið góða engin furðuleg fyrirbrigði, auk þess hafa þau víst verið víðar algeng en á Íslandi. Munurinn er aðeins sá, að í öðrum löndum urðu þau að ættarnöfnum. Englendingar hafa sjálfsagt einhvern tíma átt sinn Gissur hvíta, Óttar svarta, Valgarð gráa og Eirík rauða, annars væru naumast allir þessir og fleiri aðrir litir enn í ættarnöfnum þeirra. Engum dettur til hugar að trúa hverju orði sagnanna, þær eru óefað ofnar utan um sannsögulega atburði en í skáldsögustíl eigi að síður. Lítt skiljanlegir viðburðir, draumar



Brattahlíð á Grænlandi.

og forspár, sem hafa eða hafa ekki átt sér stað, eru ofnir inn í frásögnina til þess að gefa örlagaþrungnari og skáldlegri blæ; og þegar sagan ætlar að verða um of dauf og bragðlaus eru bardagar og ótrúleg ævintýri ofin inn í til smekkbætis. Svo er um einfætlinginn og einfætlingaland, sem ekki er fjarstæðara en óvætturin á Eyjardalsá, sem át smalamenn húsfreyjunnar og Grettir yfirvann að lokum í fossgljúfrunum, og þarf þó Grettissaga ekki nauðsynlega að vera öll skáldsaga. Sama mætti segja um hryðjuverk Freydísar, og virðist þar þó grilla í fleiri en einn sannleiksneista. Óefað var þar þröngt til húsa, og í Nýja Skotlandi eru haustveður köld og hráslagaleg og enginn gat sagt um hve kaldur veturinn yrði. Eins er um aðsúg Rauðskinnanna. Freydís flettir sig klæðum og leggur sverðið yfir brjóst og kvið sem tákn þess, að hún ætlaði sér að verja það sem innra með henni bjó. Íbúar landsins voru lengi vel herskáir og víluðu ekki fyrir sér að flá höfuðleður óvina sinna með hárinu á sem merki um sigurvinningar sínar, en þeir níddust aldrei á vanfæru kvenfólki, ólu jafnvel upp börn þeirra sem fórust í ófriði. Af því er ekki ólíklegt, að þeir hafi gefið upp sóknina og Freydís misskilið það sem flótta. Annars verður ekki frekar farið hér út í aukaatriði sögunnar, en aðeins haldið við það sem tíðast er véfengt, en það eru siglingaleiðirnar, jarðargróðurinn og innbyggjar landsins.

## Siglingaleiðir

Fyrir framan mig stendur hnattlíkan af jörðinni — flöt landabréf eru stundum villandi — og snýr Grænland upp. Grænland er langstærsta eyland veraldarinnar og er, sem allir vita, allt jöklum þakið, nema alllöng strandlengja að vestanverðu. Suðuroddinn, Herjólfsnes,

stingur nefinu suður úr sextugasta breiddarstiginu, og samkvæmt straumakortinu klofnar hlýr straumur um höfðann, — rennur vestur állinn inn með vesturströnd landsins og heldur þar opnum sjó lengstum. Hin álman fer norður og austur um sjó og flytur rekavið upp á Melrakkasléttu og Langanes. Að vesturströnd Grænlands liggur Baffinflóinn alla leið norðan úr heimskauts sjó og suður í Atlantshaf. Er hann á löngu svæði breiðari en sundið í milli Íslands og Grænlands og gæti hæglega rúmað Ísland, umflotið á alla vegu. Hinumegin flóans er Baffinland á afarlöngu svæði og enn norðar Ellesmere eyja. Baffinland er illt land, fjöllótt og jöklum þakið víða, og fer þar aldrei frost úr jörðu. Suðuroddar þess liggja að minnsta kosti tveim breiddargráðum norðar en Herjólfsnes á Grænlandi. Þar undan eru hin svonefndu Davis sund. Þar eru íshafsstraumar harðir og fjalljakar og lagís á sífelldu samfelldu reki. Næsta ólíklegt er því, að seglskip hafi nokkru sinni komizt klakklaust yfir Davis sund eða annars staðar í Baffinflóa. Skip rannsóknarmanna, sem ýmist hafa verið að leita pólsins eða norðvesturleiðarinnar, hafa allflest frosið föst í ísnum eða verið marin og brotin í spón í ísrekinu, og hafa þau þó verið byggð og sérstaklega útbúin fyrir svona leiðangra. Eina undantekningin er víst Fram, sem Nansen yfirgaf innifrosið og rak upp að Nýfundnalandi árum síðar. Og var þó landvökinni fylgt eins langt og komizt varð. Skip forfeðra vorra voru vafalaust traustlega byggð og býsna stór, sem ráða má af því, að búfé og stórgripir voru flutt í þeim landa á milli, en þau hefðu ekki staðizt ísrek Baffinsflóans, enda er ekki ólíklegt, að eitthvað af þeim skipum, sem sigldu frá Íslandi í kjölfar Eiríks rauða og fórust í hafi, hafi villzt of langt vestur, eftir að beygt var fyrir Herjólfsnes, og farizt í ísrekinu.

Suður af Baffinlandi liggur til norðvesturs sundið inn í Hudson flóann, og er það fullt af þoku og ísreki mestan hluta ársins. Hin stóru stálbyggðu skip, sem sækja kornbirgðir vesturlandsins til Churchill þorpsins við botn flóans telja ekki óhult að sigla þangað nema í ágúst og september og fylgja þó til vara þaulkunnugum hafnsögumönnum. Að vísu er trúlegt að sjóhetjur fyrri alda, sem sigldu eftir stjörnum og sól, hafi ekki ávallt gætt eins mikillar varúðar. Því má þó bæta hér við til vara, að hvalaveiðarar hafa um síðustu tvær-þrjár aldir verið að veiðum út og inn um sundin að sumri til og fara engar sagnir um hve mörgum kann að hafa hlekkzt á.

Undan suðuropi Hudson sundsins liggur Ungavafjörðurinn, breiður en ekki ýkjalangur, inn í norður strönd Labrador skagans, og er hann sömu náttúruskilyrðum háður. Af þessu má sjá, að allar siglingaleiðir frá og til Grænlands urðu að liggja um auðu vökina með landi fram norður eða suður um sjó fyrir Herjólfsnes. Samt vílar Matthías sér ekki við, að draga beina siglingalínu frá Bjarney undan vestari byggð Grænlands suður miðjan Baffinflóa til norður Labrador, og

Benedikt virðist að ganga feti framar og sigla þvert yfir flóann til Baffinlands. Varla þarf að taka það fram aftur, að þessar siglingaleiðir eru lítt færar eða ófærar seglskipum og hafa að líkindum aldrei verið farnar í fornöld. Fullyrða má því, að Grænlendingar eða Íslendingar hafi aldrei fæti stigið á Baffinland eða í Ungava. Nei, eðlilegasta og langlíklegasta leiðin er beint undan Herjólfsnesi og að norðausturhorni Labrador, sem sannarlega gæti heitið Helluland, því þar er engan gróður að sjá á landi. Liggur þá opið Bell-eyjar sundið í milli Labrador og Nýfundnalands. Ég hefi farið eftir því endilöngu á ensku farþegaskipi á sólbjörtum júnídegi og sést þar land á bæði borð alla leið innan frá St. Lawrence-flóa og útfyrir norðurskaga Nýfundnalands. Blöskrar manni lengd og tilbreytingarleysi Labrador strandarinnar og undrast þá um leið hversu heppilegt og táknrænt nafn Furðustrandir er. Þegar sundinu lýkur á suðurleið er auðvitað um tvær leiðir að velja, annað hvort að fylgja ströndinni inn í St. Lawrence-fljótið eða fara beina sjónhendingu suður yfir Cabot-sundið til Nýja Skotlands. Dregur Dr. Matthías báðar þær línur á sjókorti sínu, og eru þær færar lengstan tíma ársins.

Fornrústir þær, sem Ingstad fann á norðurskaga Nýfundnalands benda ekki sízt á, að þarna hafi siglingaleiðir Grænlendinga legið meðan þeir áttu skip og leituðu fanga suður á bóginn, þótt sögur fari ekki af, því fáum mun víst detta í hug, að hér sé um Leifs búðir að ræða. Allir, sem um þetta hafa fjallað, eru í vandræðum með Hópið. Benedikt fann samt Hóp í Ungava, en þangað komu fornmenn ugglaust aldrei, eins og áður er sýnt fram á. Ég held helzt að söguritarinn hafi verið í Húnavatnssýslu, og hugsað sér Hópið hér vestra eftir Hópunum þar. Mín hyggja er það, að Hóp megi víða finna á þessum slóðum, þótt eitt sé mér hugstæðast. Dr. Helgi Johnson, sem á ritgerð hér á öðrum stað í ritinu, var við jarðfræðirannsóknir í Nýfundnalandi í sex sumur og lýsir landinu, meðal annars svo: Þegar ísöld gekk yfir hinn norðlæga heim, var Nýfundnaland þakið yfir þúsund feta þykkum jökli. Sligaðist þá landið undir þunganum í áttina til Atlantshafsins svo, að allir fjarðarbotnar á austurströndinni drukknuðu og eftir urðu tangarnir í milli fjarða; reis þá vesturströndin að sama skapi svo upp úr sjó, að lón mynduðust víða innan við rif, sem aðeins flæðir yfir við stórflóð, og á öðrum stöðum hafa orðið til innilukt stöðuvötn þar sem firðir voru áður. Þar gæti verið um eitt eða fleiri Hóp að ræða. Sundið í milli Bretoneyjarinnar og meginlands Nýja Skotlands gæti hæglega verið Straumfjörður Þorfinnssögu — sund orðið að firði — meira hefir stundum aflagazt á skemmri tíma. En í Grænlendingaþætti er sundið beinlínis nefnt, sem enginn gat vitað um, sem ekki hafði komið þangað. Þar eru sjávarföll hærri en á nokkrum öðrum stað í víðri veröld. Ef skipi er lagt þar úti fyrir um háflóð stendur það á þurru landi um fjöru. Í



Innilokaðir firðir og lón eins og þessi eru til og frá í Nýfundnalandi og gæti hæglega kallast Hóp.

miðju sundinu er opinn sjór, sem flóð og fjara gengur inn og út um. Þar er hugsanlegt að Hópið sé. Reyndar þarf ekk afarlangt að leita til þess að finna Straumfjörð. Mjósti armur Fundy-flóans, sem nærri því sker Nýja Skotland frá Maine að sunnan og Nýju Brúnsvík að vestan, er ekki breiðari en meðal fjörður. Flóðaldan þar rís upp í 53—54 fet, í yggldum sjó, en aldrei lægra en 40 fet. Er ekki óhugsanlegt, að fyrir þúsund árum hafi þar myndazt Hóp, og svo rifið skolazt burt síðar. Margt ólíklegra hefir skeð á skemmri tíma. Nú er í ráði að reisa þar rafstöð, rekna af flóðafli.

Um áttir má lengi þrátta. Íslendingar eru og hafa ávallt verið að meira eða minna leyti áttavilltir í daglegu tali. Lítum á Grænland til forna. Sagan talar um vestari og eystri byggð, líklega af því að ströndinni hallar lítið eitt til austurs. Eigi að síður hefði þar átt að heita nyrðri og syðri byggð. Þegar ég var á Íslandi þekktist orðið **vestur** varla nema á bók. Áttirnar voru í mæltu máli að jafnaði **út** og **inn, austur** og **norður.** Langnesingar segja sjálfsagt enn „norður í Skagafjörð", þótt Skagafjörður sé sunnar á hnettinum en Langanes og í allt annari átt. Vandræðin eru, að söguritararnir eru að reyna að búa til áttir og örnefni í landi sem þeir höfðu aldrei augum litið og aðeins aldagamlar sagnir um. Þess vegna er tæpast sanngjarnt að véfengja aðalatriði sagnanna þótt áttirnar kunni að hafa bringlazt. Samt sé ég ekkert varhugavert við, að land hafi legið á bakborða hvort sem siglt var í norðurátt, austan eða vestan Nýfundnalands. Sama mætti segja um ferð Þórhalls veiðimanns. Hafi fyrstu Leifsbúðir verið á norðurströnd Nýja Skotlands, sem ekki er ólíklegt, skammt frá Sundinu, en þeir félagar verið á landkönnunarferð suður með strönd Fundy-flóans, þá verður Þórhallur að sigla norður fyrir Bretonskagann til að ná Leifsbúðum; því í sundið er engu seglskipi fært, en í þess stað hrakizt austur í Atlandshaf og að lokum náð Írlandi.

**Jarðargróður og dýralíf.**

Hinn byggði hluti Grænlands er að sögn allgróðursæll víða, enda þótt enginn sé skógurinn. Samt kvartar Sigurður Breiðfjörð um ófagurt land, þar sem hvergi sjáist stingandi strá. Eiríki hefir því vísast brugðið í brún er hann kom inn í græna firði og dali hins nýja lands úr hrjóstrugasta fjórðungi Íslands, Vestfjörðum, þar sem landsýn úr hafi er víðast grjótgrá. Aftur er Baffinland hrjóstrugt, jöklum þakið, nema syðst, og gróðursnautt, og fer þar aldrei frost úr jörðu, eins og áður er sagt. Hreindýrin, sem Vilhjálmur Stefánsson og félagar hans keyptu og hleyptu á land þar Eskimóunum til aukins viðurværis, vesluðust upp og dráp-ust. Í Ungava, sem er norðurhluti Labrador skagans, er meiri gróður. Trjábeltið nær þó ekki lengra en að 57. gráðu norðurbreiddar. Í daladrögunum inn frá flóanum er góður gróður, og fjórar tegundir berja vaxa þar, þó engin krækiber. Þegar norðar dregur og nær flóanum eru keldur og mýradrög og á hálendinu geitaskóf og hreindýramosi. Loftslagið er kalt, vötn og ár eru undir ís frá því í október og fram í júní. Frostið getur farið niður í 60 gráður á Fahr. að vetrinum og fer aldrei dýpra úr jörðu en eitt eða fá fet. Í hvorugu þessu landi er nokkuð byggingarefni að finna nema þá mold og grjót. Strjálingur af Indíánum býr þar og hefst við á veiðum. Eskimóar hafa víst aldrei fest þar rætur, en samt hafa þeir fyrir tiltölulega skömmum tíma flutzt inn á strandlengjuna andspænis Nýfundnalandi og á Quebec ströndina Labrador megin.

Nýfundnaland er að mun gróðursælla og skógur er þar víða, nema á norðurskaganum; hafa pappírsmyllur verið reistar þar til að hagnýta trjáviðinn. Þegar Cabot kom þangað seint á fimmtándu öld var þar fyrir lítill flokkur friðsamra Indíána, og leituðu Eskimóar þangað yfir sundið til fanga, en festu þar aldrei byggð.

Það er ekki fyrr en komið er suður fyrir flóann, að gróðrinum ber saman við sögurnar, og mætti því með sanni segja, að þar sanni sagan sig sjálfa. Þetta kann nú að líkjast rökfærslu bókstafstrúar manna: Bókin er til, þess vegna er hún sönn. En hér stendur alveg sérstaklega á. Engir nema sjónarvottar gátu lýst gróðri þessa lands — gróðri sem hvergi óx í áður þekktum löndum, stórvöxnum skógum sjálfsánum ökrum, villtum vínviði. Í hinum nyrðri löndum er aðeins um heimskautagróður að ræða.

En hér og suður alla strönd hagar allt öðruvísi til. Hér gátu þeir höggvið við til húsagerðar og hér sáu þeir þennan nýstárlega gróður. Sjálfsánu akrarnir, villihafrarnir, eru enn til, þótt allt sé gert nú á dögum til að uppræta þá sem versta illgresi. Auk þeirra eru villihrísgrjónin, sem vaxa í grunnvetni víðsvegar um landið. Hér í Manitoba eru tjarnarflæði víð og breið vaxin hrísgrjónum. Fara Indíánarnir um þau á grunnskreiðum bátum, beygja stöngina inn yfir borðstokkinn og hrista grjónin úr axinu ofan í bátinn. Eru þau seld dýrum dómum og þykja herramannsréttur, einkum með villibráð. Villti vínviðurinn —

fleira en ein tegund — er enn landlægur í suðaustur Kanada og suður um öll Bandaríki, þar sem jörðin hefir ekki öll verið plægð upp eða byggð stórborgum milli fjalls og fjöru á mörg hundruð mílna strandlengju Atlantshafsins. Vínviðurinn er skriðjurt, fléttujurt eða klifurjurt eftir ástæðum eða landslagi. Það er því afsakanlegt, að sagan nefnir víntré, því viðurinn vefur sig tíðum utan um trjáboli, þar sem svo hagar til, svo tréð sýnist laufgað neðan frá rótum og tugi feta upp í krónur trjánna. Blöðin eru fallega löguð, misstór — frá tveim þumlungum upp í sex þumlunga á breidd og lítið eitt lengri. Berin (þrúgurnar) eru smá, þó nokkru stærri en vanaleg bláber, dökkblá á lit og vaxa þétt saman á sérstökum stöngli, sem hangir í skjóli blaðanna.

Í leiðangri sögunnar eru yfir sextíu norrænir menn og konur, sem að líkindum höfðu aldrei litið vínber. En svo er þar í hópnum



Lauf af vínviði.

einn maður, sem á unga aldri hafði komið úr suðlægari löndum, þar sem vínrækt var stunduð og þekkti vínviðinn, óefað af laufinu og táginni, sem blöðin vaxa út úr. Olli þetta honum svo mikilla geðbrigða, að hann fór að tala móðurmáli sínu og félagar hans héldu hann ölvaðan. Sjálfsagt eru það nú ýkjur, að þeir hafi tínt bátfylli af berjum — haft „jollu attaní“, eins og skáldið kvað í gamni, en mörg lygilegri saga hefir þó reynzt sönn.

Fyrir nokkrum árum gróðursetti tengdasonur minn þrjá eða fjóra teinunga af þessum vínvið við hliðina á bílskúrnum okkar. Eftir tvö ár voru greinarnar búnar að klæða allan vegginn og þakið upp yfir rjáfur. Tíndu drengirnir í nágrenninu hálf-fullan þvottabala af berjum á skammri stundu dags. Úr þeim fengum við nokkrar flöskur af betra rauðu víni en selst í vínbúðunum. Konur búa líka til úr þeim gómsætt berjahlaup.

Einhvers staðar minnir mig að standi í annálum, að skip hafi komið úr hafi frá Grænlandi, sem allt var geirneglt eða tréneglt. Það segir sig sjálft, að slíkt skip hlaut að hafa verið smíðað vestra úr vestrænum trjávið. Hefði viðarins verið aflað frá Norðurlöndum var að sjálfsögðu eins auðvelt að kaupa þar járnnagla um leið til smíðanna. Þá má ekki gleyma Húsasnotrunni, sem líklegast hefir verið einhvers konar gólfsópur þeirra tíma. Hún var smíðuð úr mösurtré eða maplevið, sem að vísu vex víðar um heim en vestan hafs. Okkar vestræna maple-tré er undra fagurt tré á að líta; úr því streymir á vorin lögur,

sem betra síróp fæst úr en nokkrum öðrum jarðargróðri. Viðurinn er harður og mjúkur áferðar og er hagnýttur til húsgagnasmíða og innan húss klæðningar og fleira.

* * *

Dýralífið fylgi jafnan gróðrinum, enda þótt ýmis dýr lifi af öðrum dýrum eins og mennirnir. Á Grænlandi og Baffinlandi var ekki um annað að ræða til manneldis en sel og hvítabirni á ísum og fisk þar sem náðist í auðan sjó. Á eyjunum vestan Baffinflóans eru Muskox dýrin að auki, sem nefnd hafa verið sauðnaut á Íslandi. Það dýrakyn er nú hvergi annarsstaðar til í víðri veröld. Hvergi eru þau þó nefnd í sögum Grænlands. Í Ungava eru hreindýr, þó ekki í ýkjastórum hjörðum eins og í Alaska og sumsstaðar á öðrum norðursvæðum. Úlfar og melrakkar eru vitanlega víðast hvar, en teljast til rándýra og eru ekki hafðir til manneldis, þótt feldir þeirra hafi klætt fólkið frá ómuna tíð. Þegar sunnar dregur á sjálfu meginlandinu er það krökkt af allskonar dýrum frá hafi til hafs. Hjartarkynstofninn, frá minnstu dádýrum og upp í hin tignarstóru elgsdýr, eru enn um allt land, þar sem mannabyggð hefir ekki útrýmt þeim. Þau halda sig þó ógjarna í stórum hópum. Aftur á móti héldu vísundarnir sig í afarstórum hjörðum um allt land, einkum þó á sléttum miðlandsins, þar sem talið er að þeir hafi skipt milljónum um eina tíð. En fyrir óstjórnleg dráp hvítra manna lá við sjálft, að þeir hyrfu af jörðinni. Sagan um tangann, sem líktist mest kvíabóli að morgni dags, bendir einmitt á eina slíka hjörð.

Enginn skyldi gera gys að mannýgum tarfi í vígahug. Ég hefi spurzt fyrir um raddir helztu villidýra þessa lands, og kemst ekkert þeirra í hálfkvisti við beljandi griðung. Auk þess ráðast ekki villidýr á menn, heldur forðast þá miklu fremur. Indíánarnir þurftu því ekki að vera neinar bleyður, þótt þeir hrykkju fyrir þvílíku öskrandi skrímsli, ekki sízt þegar þeir voru þar í friðsamlegum viðskipta erindum.

**Frumþjóðirnar.**

Þegar Evrópumenn tóku bólfestu í Vesturheimi voru hér fyrir tveir kynflokkar manna — guli kynstofninn, sem jafnan hefir fylgt heimskauta- eða íshafs-löndunum, og rauðskinnarnir, eða brúnleita fólkið, sem aðeins lítil kynni höfðu af hinum og kölluðu þó Eskimóa, er kvað þýða hráæta. Vísindamenn fullyrða, að gula fólkið, sem er mongólakyns, hafi komið frá Síberíu fyrir um það bil 2000 árum yfir Bering sundið á ísum, líklega vegna selsins, sem meiri mergð er af þar á eyjunum í og í kringum sundið en fyrirfinnst annars staðar í heimi. Hafa Eskimóarnir í fyrstu staðnæmzt í Alaska, en svo færzt hægt og hægt austur á bóginn unz þeir náðu Ellesmere eyju, Baffinlandi og að síðustu Grænlandi norðanverðu. Þeir fylgdu ávallt ísnum og selnum og þekktu því hvorki báta né siglingar. Óefað hafa þeir seinna meir lært af Grænlendingum, á næstu öldum, að búa til báta, og þegar efnivið brast lærðu þeir af hugviti sínu að hagnýta skinnin. En grindina í bátana þurftu þeir þó að fá einhvers staðar frá, og í skóglausu

landi var ekki um annað að ræða en þær spýtur, sem Grænlendingar lumuðu á. Þessir bátar hafa aldrei verið haffærir í orðsins eiginlega skilningi, en dugðu þó til fiskiveiða á innfjörðum og skammt undan landi. Það verður að vísu að játa, að skinnbátar þekktust víðar en á Grænlandi, en óvíst hve víða, og hve snemma á tíð. Tungumál Eskimóa er afarólíkt tungum Evrópumanna, og er af sömu rótum runnið og mál frænda þeirra Síberíu megin, en skilst þó ekki lengur þar sökum ólíks tungutaks. Þeir Eskimóar, sem ekki hafa til lengdar umgengizt hvíta menn, eru siðavant og friðsamt fólk, sem lifir sem mest af sameign, og á aldrei í erjum eða bardögum, en þeir eru glaðværir og gamansamir og eru jafnan reiðubúnir að búa til sögur, sem enginn flugufótur er fyrir, jafnvel bardagasögur um sjálfa sig, ef þeir halda að gestum þeirra sé skemmt, og bera þá jafnan sigur úr býtum. (Vil. Stef.). Ekkert er því fjær sanni en það, að þeir hafi ráðið niðurlögum Grænlendinga á 13. og 14. öld. Miklu er það líklegra, að yngra fólkið norræna, sem fór í norðursetu árlega, hafi kynnzt þar Eskimóunum á suðurleið þeirra og smám saman blandazt þeim, en eldra fólkið dáið út fyrir elli sakir og ef til vill í drepsóttum og harðrétti. Uppgröfturinn á Herjólfsnesi benti á beinkröm og fæðuskort. Ekki er heldur óhugsanlegt, að ýmsir hafi dreifzt suður um haf og týnzt þar í óeirðum Indíánanna.

Þegar Columbus og föruneyti hans rakst á Vesturheim, héldu þeir í fávizku sinni, að þeir væru komnir til Indlands. Þeir komust fljótt að raun um, eins og þeir reyndar höfðu búizt við, að allar strendur, eyjar og andnes voru krök af fólki, sem þeir báru engin kennsl á, né skildu, svo þeir kölluðu þá bara Indíána (Hindua), og hefir það nafn því miður tollað við síðan. En það sem þeir vissu ekki þá var, að hér var um áður óþekkt mannkyn að ræða — rauðbrúna fólkið, sem búið hafði um allt þetta meginland frá hafi til hafs, nema á heimsskautasvæðunum, frá alda öðli. Vísindamenn halda því nú fram, að fundizt hafi menjar þess, að þetta fólk hafi verið hér í landi fyrir 10—12 þúsund árum. Eins og annars staðar í veröldinni, skiptust þeir í margar þjóðir og ættbálka, sem aldrei sátu á sárshöfði hver við annan. Sunnar í álfunni höfðu þeir komizt á hátt menningarstig — stundað akuryrkju, byggingarlist, og jafnvel stjörnufræði. Hér um miðja álfuna, héldu þeir sér sem mest við veiðimennsku, fylgdu dýrahjörðunum fram og aftur um landið og bjuggu í tjöldum. Þetta er yfirleitt gjörvilegt, vel vaxið fólk, ekki ófrítt í andliti, einkum á yngri árum, en eldist snemma í sýn, einkum þó kvenfólkið, sem látið var vinna öll erfiðisverk nema veiðarnar. Fer andlitshörund þeirra snemma í hrukkur og fellingar. Er það sennilega orðið að erfðum í gegnum árþúsunda útivist í kulda, hita og veðurbarningi. Ég þori að fullyrða, að fólkið þar eystra, sem Grænlendingar lentu í skærur við, hafi verið það fólk, er þeir nefndu skrælinga; því þeir einir manna hafa skorpið og skrælnað hörund.

GUTTORMUR J. GUTTORMSSON:

# Á heimleið

## — VORIÐ 1965 —

Héðan ég fer með þeim fyrsta hrafni
sem flýgur norður með land fyrir stafni,
landið mitt góða með vötn og velli
og villilands skóga í hárri elli.
Þar á ég ból og þar á ég skjól
og þar á ég sól í heiði
og þar á ég líka leiði.

Þangað ég fer, því ég festi rætur
forðum við ána um veturnætur.
Alltaf til skiptis hún fjarar, flæðir,
frýs og ylnar og klakann bræðir,
hún streymir með allt sem á ýmsu valt,
en einkum var kalt í geði
og gleymast mér þarf til gleði.

Með viðburði streymir hún veg að ósi,
ei verða þeir sýndir í dagsins ljósi.
Stórvatnið tekur þeim straumum móti,
þeir stöðvast og brotna í ölduróti
og aldrei meir koma aftur þeir,
í aur eða leir þeir hverfa
og eilífa lífið ei erfa.

Minning um atburð í andans ríki
mun aldrei verða að dáins líki,

en lifa um eilífð sem vera og vara
— ei veröld þeirri úr minni fara.
Atburður hver, sem yndisleik ber,
það ávinnur sér í heimi
að minningin glöð hann geymi.

Eftir mér bíða á undan farnar
alfögru, hugljúfu minningarnar,
þar sem ég sál minni sjálfri mæti
í Zion á einhverju himna stræti.
Finni ég þær mínum faðmi nær,
Faðir vor kær, þá segðu:
Í sál þinni og anda þær eigðu.

Hvernig sem fer, allt er fullkomnað bráðum,
það fer ekki neitt eftir mínum ráðum
fremur en þá er ég fæddist í heiminn
— og fyrir mér á að hverfa út í geiminn
án tilgangs sem sízt má teljast víst,
en torvelt mér lízt það vera
sér grein fyrir því að gera.

Var lífið þess vert að lifa bara
fyrir ljúfsælar minningar? Hrafninn má svara:
Minningar ódauðlegs eðlis ég játa,
en óráðin samt er hin mikla gáta.
Í mannsandans geim og hans minninga heim
eftir minningum þeim má gruna
að enginn sé andi að muna.

DR. RICHARD BECK:

# Ljóðagerð Vilhjálms Stefánssonar

Í ritgerð minni um dr. Vilhjálm Stefánsson, „Skáld athafnanna", sem birtist í **Tímariti Þjóðræknisfélagsins** 1963, vék ég stuttlega að ljóðagerð hans á yngri árum og lét þess jafnframt getið, að ég hefði í huga að rita ítarlegar um þessi kvæði hans síðar. Nú hefir mér unnizt tími til að gaumgæfa betur þessi æskuljóð Vilhjálms, sem flest er aðeins að finna í **The Student**, mánaðarriti stúdenta á Ríkisháskólanum í Norður-Dakota (University of North Dakota) frá þeim árum, er hann stundaði þar nám.

Ekki hefir áður neitt samfellt yfirlit verið ritað um þessi kvæði hans, hvorki á ensku né íslenzku, en sjálfur víkur hann að þeim í ritum sínum, einkum í bók sinni **Hunters of the Great North (Veiðimenn á hjara heims**, í íslenzkri þýðingu Ársæls Árnasonar), sem ég vitnaði til í fyrrnefndri ritgerð minni um hann, og einnig í sjálfsævisögu sinni, **Discovery** (New York, 1964), er síðar verður vitnað til. Ennfremur er nokkrar upplýsingar um ljóðagerð Vilhjálms að finna í prýðisgóðri ævisögu hans, **Vilhjalmur Stefansson. Prophet of the North**, eftir Earl Parker Hanson (New York, 1941). Þá víkur dr. Thorvaldur Johnson að ljóðagerð Vilhjálms á yngri árum, og að ritstörfum hans á íslenzku og um íslenzk efni, í hinni athyglisverðu grein sinni „The Young Vilhjalmur Stefansson" (**Lögberg-Heimskringla** 12, september 1963). Loks ber að geta gagnorðrar greinar Páls skálds Bjarnasonar „Two Sonnets by the Arctic Explorer Vilhjalmur Stefansson" (**The Icelandic Canadian**, Autumn 1964), þar sem greinarhöf. fylgir tveim sonnettum Vilhjálms úr hlaði með inngangsorðum um ljóðagerð hans á skólaárunum. En Páll var æskuvinur og skólabróðir hans, og þess vegna gagnkunnugur honum og ljóðagerð hans á þeim árum.

Vilhjálmur Stefánsson hóf nám í Undirbúningsdeild (Preparatory Department) Ríkisháskólans í Norður-Dakota í Grand Forks haustið 1898. Var þess eigi langt að bíða, að hann kæmi fram á sjónarsviðið sem skáld, en fyrsta kvæði hans, sem ég hefi fundið í mánaðarriti háskólastúdenta, var kvæðið „The Last Hour", sem prentað var í apríl 1899. Er það all langt kvæði, órímað, ort (að undanteknum síðustu ljóðlínunum) undir „blank verse" bragarhætti, sem algengur er í enskum ljóðaleikjum og söguljóðum, en Vilhjálmur var á þessum árum (eins og hann segir sjálfur í framannefndum ritum sínum), meðal annars, orðinn víðlesinn í ritum enskra öndvegisskálda, bæði á frummálinu og í íslenzkum þýðingum. Í skemmtilegu bréfi, sem prentað er í áðurnefndri ævisögu Vilhjálms eftir Earl Parker Hanson, segir æskuvinkona Vilhjálms, Sigríður Hall-

dórsson (síðar Mrs. J. E. Galbraith í Cavalier, N. Dakota), að seint á rigningardegi miðsumars 1897 hafi Vilhjálmur, sem þá var á 18. ári, komið heim á sveitabæ foreldra hennar í íslenzku byggðinni, og hafi þau, hún og Vilhjálmur, setið við það langt fram á nótt að lesa og rökræða skáldskap, sérstaklega söguljóð Byrons **Parisinu**, sem þau höfðu í íslenzkri þýðingu Steingríms Thorsteinssonar. Sigríður heldur áfram: „Þýðandinn var sjálfur mikið skáld; eigi að síður, bárum við þýðingu hans gaumgæfilega saman við frumritið, og komumst að þeirri niðurstöðu, að hún væri í heild sinni mjög sómasamlega af hendi leyst („on the whole quite fair")! Sigríður bætir því við, að Shelley og Burns hafi þau bæði unnað hugástum. Ekki var Kipling síður Vilhjálmi vel að skapi, eins og nánar verður vikið að síðar í þessari greinargerð. Skal þá horfið aftur að fyrsta kvæði Vilhjálms, sem ég hefi fundið á prenti.

Eins og heiti þess, „The Last Hour", bendir til, fjallar það um mann einn, sem á dauðastundinni horfir yfir farinn veg og gerir upp reikningana við sjálfan sig og lífið. En þar sem stúdentaritið, er geymir innan spjalda sinna umrætt kvæði, mun eigi vera varðveitt nema í mjög fárra höndum, líklegast ekki nema í nokkrum bókasöfnum, og enda þótt kvæðið væri á sínum tíma endurprentað í **Heimskringlu**, þykir mér fara vel á því, að það varðveitist í þessu tímariti, sem um annað fram er helgað þjóðræknis- og menningarlegri starfsemi Íslendinga vestan hafs og bókmenntum þeirra. Mun ég fylgja sömu reglu um önnur styttri kvæði Vilhjálms, að undanteknum fyrrnefndum sonnettum hans, fella þau í heild sinni á frummálinu inn í þessa frásögn mína um ljóðagerð hans. Má ennfremur geta þess, að umrætt fyrsta prentaða kvæði hans er eitt af lengstu ljóðum hans, en það er á þessa leið:

The midnight lamp was burning by his bed,
His breath froze on the counterpane, his ear
Was strained to hear the wailing of the wind
And wand'ring footstep of the passerby.
No friend was near, no faithful hand to hold
His frail, weak one, or press the fevered brow
As death crept over it—cold and cruel death
That comes to many as a thief at night,
Unwelcome and unbidden; but to him
Welcomed and watched for; welcomed as a friend
Whose voice, tho' cold and harsh to those who fear,
Is sweet to him who suffers, and has felt
The sorrows and the burdens of existence.
Who, with a purpose to do good and right,
Has fought the battle of the weak, to earn
The idiot jeers of those he strove to raise.

* * * * * * *

The winter night grew calmer and the steps
Grew fewer on the street, and when the last
Had died away, with sudden feverish strength
He raised himself and with quick, failing breath
Broke bitter on the silence of the night:

"Why was I born? O, why?
Why had I the power to know and feel
The suffering of self-deluded fools
Who see not and cannot be made to see,
That their own ignorance is the one great cause
Of all they suffer? Proud of puny mind
They praise themselves, extol their fancied gifts
And feigned possessions, glorifying in
Not what they are but what they ought to be.

"O they are old in folly, babes in sense;
Their babble is of Freedom, "tis a word
That means but little in the mouths of those
Whose thoughts are bound up in the past, whose hearts
Pay slavish worship to the wooden gods
Themselves have fashioned, or their ancestors.
Free? In a land of Freedom? They are free
To do as others do, or not and starve;
To think as others think or keep their thoughts
Securely hidden from all prying eyes,
No jar Catholic ears with heresies.
For even truth is but a heresy
If it confutes a 'science,' or a creed.
Or custom iron-bound and guarded well
By doting crankage. Slaves are lulled to rest,
Each by each, with chants of liberty.
And, each by each deceived, they round them weave
A cage of Good Old Customs, Sacred Faiths
And Immutable Follies, whoso durst
To touch is cursed by all, and spat upon,
And flung to earth and tramped, and cursed again."

"O thoughts that burn and torture! Canting world,
I leave you now. But on a brighter day
A stronger arm than mine may lift thy yoke,
My Brother, and may teach thy eye to see
Thyself as God hath made thee and to know
Thy power and thy weakness and to do
Full justice to thyself, and thus, to all.
Teach thee to feel thy highest duty is
To walk thy path with open ear and eye
Breathing love's sweetness while thy love is young
And living life as if 'twere good to live."

* * * * * * * *

In the gloomy, gloomy chamber
Gathers slow the light of morning
And the silent sunbeams creeping
Through the lattice, past the snowdrift,
Meet a steady, steel-cold eye.

Vilhjálmur var 19 ára, þegar kvæði þetta var birt, og er þar því óneitanlega efnilega úr hlaði riðið um ljóðagerðina. Gætir þar hreint ekki lítils valds á máli og ljóðformi, og lýsingarnar margar hverjar að sama skapi vel gerðar; þar er einnig djúp undiralda tilfinninganna, og lífshorfið þroskaðra en ætla mætti um ekki eldri mann. Hin frjálsa hugsun og ádeilukenndin leyna sér ekki. Auðsætt, að hið unga skáld fer sinna ferða í skoðunum, enda svipmerkti það Vilhjálm frá upphafi vega og til leiðarloka.

Eins og dr. Thorvaldur Johnson bendir á í framannefndri grein sinni um Vilhjálm, var það einnig einmitt þetta kvæði, sem fyrst varð til þess, að vekja eftirtekt íslenzkra lesenda á honum, er það var endurprentað í **Heimskringlu** 11. janúar 1900.

Næsta kvæði Vilhjálms í stúdentablaðinu var „Ocean — A Fantasy“, prentað þar haustið 1899, og fer hér á eftir:

O mighty sea, I walk upon thy shores
And hear thy moan, and see thee strive in vain
To break the fetters that thy soul abhors,
To cast aside the sordid, earthly chain
That fetters even thee, and drags again
Back to this puny world, when thou wouldst rise
To clasp thy bride who, with her virgin train
Wonders with aimless step the gem-paved skies
And bends on thee a look of love that never dies.

My heart is sore within me, but thy pain
Is greater than my own; I love and weep
Upon thy shores a moment, then again
To whence I came, to rest and dreamless sleep.
But thou, O ocean, still thy watch must keep
And beat thy breast against thy shores, and moan,
And grind them in thy agony, and steep
Thy eyes in hopeless tears, while on her throne
Thy queen sits, desolate, disconsolate, alone.

Thus must thou on, and when thy thunder sound
Falls heedless on the ears of those who sleep,
When in thy raging anguish thou hast ground
The continents to dust, and when thy sweep
Boundless, endless, overwhelming deep
Is all-in-all on earth, still wilt thou sigh
In vain for her, who over thee must keep
Her watch. Through eons thou art doomed to cry
Unheard, for frail man's birth-right; when hope is gone, to die.

Hér er það ímyndunaraflið, sem gefur lýsingunni á hafinu byr undir vængi, samhliða orðavali lýsingarinnar sjálfrar, að ógleymdri íhyglinni, sem er hinn þungi undirstraumur kvæðisins.

Leið nú á annað ár þangað til mánaðarrit stúdentanna flutti kvæði eftir Vilhjálm, svo að fullyrt verði með vissu, þó að nafnlaus kvæði eftir hann kunni að hafa komið þar á því tímabili. En í marzhefti ritsins 1901 birtust ekki færri en þrjú kvæði hans, öll að vísu nafnlaus, en um það er vitað eftir öruggum heimildum, að þau voru ort af honum. Er þar fyrst á blaði það kvæði hans, sem kunnast hefir orðið, „Philosophy at Twenty“, eða „Heimspeki tvítugs manns“, eins og dr. Sigurður Júlíus Jóhannesson nefndi það í snjallri þýðingu sinni. Tók ég hana í heild sinni upp í áðurnefnda ritgerð mína um Vilhjálm í **Tímariti Þjóðræknisfélagsins**, og vísa þangað til hennar, en í frummynd sinni á enskunni er kvæðið þannig:

A feeling comes to my heart tonight
That has filled, since the world began,
The centuries; and been the light
Of the life of the common man.
For love is the law, the master force,
That makes the world akin;
That throws a glow over all without
And mellows the soul within.

'Tis glorious, on a world-wide stage,
To wear a hero's crown
That shines with the gems
of mighty deeds,
With the gold of a fair renown!
But every prize this earth holds out,
Or has held since the world began,
I would renounce, and live,
for a woman's love
The life of a common man.

For what care I that the world go wild
At the whisper of my name?
The love of the woman my song has sung
Is not priced in terms of fame!
There is no boon this earth holds out,
Or has held since the world began,
That can fill the place of a woman's love
In the life of any man.

But if the prize of a woman's love
Falls not to me or you,
Let us hide the blight of a ruined life
In a work that is strong and true.
For those who have builded earth's
fairest shrines,
And have wrought,
since the world began,
Are those denied a woman's love
And the life of a common man.

Hvort kvæði þetta er byggt á reynslu hins unga skálds í ástamálum, eða ávöxtur skáldlegs hugarflugs hans eins saman, veit ég ekkert um. En hvað, sem því líður, þá er þar vel á efni haldið bæði um ljóðform og málfar, og tilfinningahitinn sannfærandi. Lífsspeki sú, sem kvæðið flytur, er einnig næsta eftirtektarverð. Er eigi, sem hér megi greina, þá ákvörðun Vilhjálms, sem hann tók eigi löngu síðar, sem sé· að snúa baki við ljóðagerðinni, sem átti hug hans um annað fram á þessum árum, og gerast í þess stað **skáld athafnanna?**

Í þessu hefti skólaritsins eru einnig prentaðar sonnetturnar tvær, sem Páll Bjarnason tók upp í grein sína um Vilhjálm í **The Icelandic Canadian,** en þær eru „Whitman" og „Science" og sé ég ekki ástæðu til að láta endurprenta þær hér, þar sem lesendur eiga svo greiðan aðgang að þeim.

Hins vegar hika ég ekki við að telja sonnettur þessar meðal beztu kvæða Vilhjálms, um formfestu og þrótt máls og mynda, en jafnframt eru þær hugsun hlaðnar. Hefir hann auðsjáanlega dáð Whitman fyrir frumleik hans í ljóðagerð, frelsis- og mannást hans. Sonnettan „Science" virðist mér þó vera enn betri skáldskapur, en þar hyllir skáldið sannleiksleitandann fögrum orðum og hjartaheitum. Var þess einnig eigi langt að bíða, að Vilhjálmur helgaði vísindunum nám sitt, og skipaði sér í sveit þeirra, er telja það háleitasta hlutverkið að víkka landnám mannlegrar þekkingar.

En skáldórarnir eru enn ofarlega í huga hans í kvæðinu „A Dream When Dreams Are Vanished", sem birtist í aprílhefti skólaritsins 1901:

The sun is rising in the east,
Rosy dawn wakes life with a kiss,
And love is all, and life is bliss,
And flowers strew the way.
The fragrant morning breezes blow
Sighing low ,very low—
What is it they should know?

The sun beats down from a noon-day sky
On a stifling struggle
with man and life,
On trampled hopes, on wild,
blind strife,
And a plain crisp—burned, and bare
Of the mirage dreams
that clothed it green,
And morning gold, and silver sheen,
And liquid blue between.

The sun is setting in the west;
Love has set, the past is dead.
Leave me alone to bury my dead;
To lay them low, very low;
To cover them and softly pray
That memory's silken foot
may stray—
Not that—some other way.

Kvæði þetta er lipurt og ljóðrænt, og um bragarhátt í annari tónteg-

und heldur en fyrri kvæði hins unga skálds, en að efni til sver það sig í ætt til kvæðisins „Heimspeki tvítugs manns", þó að hið síðarnefnda sé stórum betur ort og efnis meira.

En í sama hefti háskólaritsins (apríl 1901) birti Vilhjálmur grein, er hann nefndi „Aberholtz", um ástir og ástamál. Er hún rituð undir fullu nafni, V. Stefanson, en annars merkti hann kvæði sín annaðhvort V. St. eða V. S., en birti þau stundum nafnlaus, eins og bent hefir verið á um sum þeirra hér að framan. Inn í grein þessa fléttar hann allmörg kvæði stíluð til nokkurra ónefndra skólasystra hans, ort í anda og undir bragarháttum frægra skálda (Shelley, Longfellow, Spencer og fleiri); er þar jöfnum höndum slegið á strengi gamans og alvöru, en glettnin þó mest áberandi. Engan vafa tel ég leika á því, að Vilhjálmur hafi sjálfur ort kvæði þessi, og bera þau gott vitni valdi hans á ensku máli og rímfimi hans.

En í febrúarhefti stúdentaritsins sama ár (1901) hafði hann birt stutt leikrit í bundnu máli allt annars efnis, þar sem víða er grunnt á ádeilunni, eins og Páll Bjarnason getur réttilega um í grein sinni um Vilhjálm. Leikrit þetta nefnist „Vacation Tragedy" og er um 350 ljóðlínur að lengd. Afrit af því er varðveitt í bókasafni Vilhjálms, The Stefansson Collection, Dartmouth College Library, Hanover, New Hampshire, og merkt upphafsstöfunum „V.S." Er það skiljanlegt, að sumir háskólakennaranna hafi eigi, eins og Páll Bjarnason víkur að í grein sinni, litið kvæði þetta vinsamlegum augum, þar sem þar er að finna beinskeytta ádeilu á forseta háskólans. Hitt er laukrétt, eins og Raymond P. Holden rithöfundur bendir á í grein sinni um Vilhjálm, „Explorer and Man of Letters", **Polar Notes** (Occasional Publication of The Stefansson Collection, November, 1962), að í þessum ádeilukennda ljóðleik Vilhjálms megi sjá merki þess sjálfstæðis í hugsun, þeirrar dirfsku í skoðunum, sem síðar varð svo einkennandi fyrir hann, er hann í ræðum sínum og ritum gekk djarflega á hólm við rótgróna hleypidóma og vanþekkingu.

Seinasta kvæði eftir Vilhjálm, sem ég hefi fundið í mánaðarriti stúdenta Norður Dakota háskóla, birtist í janúarheftinu 1902, og nefnist „Ode of Welcome"; all langt kvæði, er tekur yfir framsíðu ritsins, en þar var flestum kvæðum Vilhjálms skipað til sætis. Eins og heiti þess bendir til, er kvæði þetta fagnaðaróður til nýrra stúdenta, hreimmikið og í léttum tón, en jafnframt er þar slegið á alvarlegri streng, hinir nýju stúdentar eggjaðir til þess að vera trúir sjálfum sér, til sjálfstæðis í hugsun og til frjósamra dáða.

Þessi eggjunarorð Vilhjálms í seinasta prentaða kvæði hans í stúdentaritinu mega einnig skoðast sem ljóðkveðja hans til skólabræðra hans og systra, því að í marzbyrjun 1902 var honum vikið úr skóla, eins og frægt er orðið, á þeim forsendum, að hann hefði verið uppvöðslusamur um of og gert sig sekan um brot á skólareglum. Skal það ekki nánar rakið hér, en skylt að geta þess, að hér var um að ræða um frávikningu úr skólanum um stund-

ar sakir, það, sem eftir var skólaárins. Jafn réttmætt er einnig að geta þess, að sumir háskólakennara hörmuðu það, að nauðsynlegt var talið að taka þessa ákvörðun, og var dr. Webster Merrifield, forseti háskólans, í þeim hópi. (Smbr. Hanson: **Stefansson. Prophet of the North,** bls. 21). Hvað sem því líður, varð þessi frávikning til þess, að Vilhjálmur hvarf með öllu frá námi á Norður Dakota háskóla, en hóf stuttu síðar, góðu heilli, nám á Ríkisháskólanum, Iowa (University of Iowa), með frábærlega glæsilegum árangri. (Smbr. ritgerð mína, bók Hansons bls. 22—23, og sérstaklega sjálfsævisögu Vilhjálms.) Bæta má því við, að Ríkisháskólinn í Norður-Dakota hafi bætt Vilhjálmi upp brottvikninguna, er skólinn síðar krýndi hann sínum hæsta heiðri 1930 með því að gera hann heiðursdoktor, sama árið og Háskóli Íslands sýndi honum sama sóma.

Vilhjálm hafði dreymt stóra drauma um það að verða skáld, eins og hann segir sjálfur í ritum sínum, og ég vitnaði til í grein minni um hann í tímariti þessu. Hann hefir einnig sjálfur skýrt frá því, hversvegna hann sneri baki við ljóðagerðinni, og fer um það þessum orðum í sjálfsævisögu sinni, sem hér er lauslega snúið á íslenzku, en nýútkomna íslenzku þýðingu ævisögunnar hafi ég enn eigi séð:

„Annað merki vaxandi alvöru var það. er ég hvarf frá þeirri ætlun minni að verða mikið skáld. Fyrsta ár mitt á háskólanum hafði ég ort kvæði í álnatali („by the yard"), og hitnað hugur af afreksgleði, þegar sýnishorn þeirra voru prentuð í mánaðarriti háskólans, **The Student.** Ég hafði lært utanbókar kvæði Kiplings **Barrack Room Ballads** og **Departmental Ditties**, ekki af ásettu ráði, en sem árangur þess að hafa iðulega lesið þau upp á fastsettum skemmtiskrám. Um tíma hvarflaði það að mér, að verða eftirmaður Kiplings. Sá draumur varð að engu, er mér dag nokkurn kom fyrir sjónir í **Scribner's Magazine** kvæðið „Gloucester Moors" eftir mann, sem ég hafði aldrei heyrt getið, William Vaughan Mody. Eftir að hafa lesið það kvæði, orti ég aldrei eina einustu ljóðlínu. Virtist mér, að þegar maður, sagður vera á mínum aldri, gat ort kvæði svo miklu betur en ég gat nokkur sinni vonazt til að gera, að mér væri það bezt, að velja mér braut til frægðar þar sem samkeppnin væri ekki eins hörð."

Geta má þess, að við minningarguðsþjónustuna um Vilhjálm á Dartmouth Gollege 30. ágúst 1962, las Prófessor Henry B. Williams upp fyrrnefnt kvæð Moodys, með þeim formála, að ævilöng ást Vilhjálms á skáldskap hefði átt rætur sínar í því, að hann hefði á yngri árum ætlað að verða skáld, en þetta kvæði Moodys hefði beint honum braut í þá átt að helga landkönnun og vísindum skapandi skáldgáfu sína.

Hversu langt hann hefði náð á skáldskaparbrautinni, hefði hann haldið áfram á þeirri braut, er vitanlega erfitt að fullyrða, en æskuljóð hans eru þannig vaxin um ljóðform, málfar og þróttmikla hugsun, að mikils hefði mátt af honum vænta í þeim efnum. Hann var aðalskólaskáldið á háskólaárum sínum, eins og þeir æskuvinir hans

og skólabræður, Guðmundur Grímsson, síðar hæstaréttardómari, og Páll skáld Bjarnason, hafa báðir sagt á prenti. Þetta kemur einnig ljóslega á daginn, þegar borin eru saman ljóð hans við önnur kvæði, sem birtust í mánaðarriti stúdenta á þeim árum. Beztu kvæði hans bera þar af hinum sem gull af eiri.

En í víðtækari merkingu reyndist Vilhjálmur alla daga trúr æskuást sinni á skáldskapnum. Í rauninni beindi hann einungis djúpstæðri skapandi skáldgáfu sinni inn á aðrar leiðir, og varð í óvenjulega ríkum og varanlegum mæli **skáld athafnanna** í fyllstu merkingu þess orðs; opnaði með landkönnunarferðum sínum og rannsóknum, og með fágætu andans innsæi sínu, nýja heima sanninda og þekkingar. Það er hverju orði sannara, sem Raymond Holden segir um Vilhjálm í framannefndri grein sinni um hann: „Hann hélt áfram að vera skáld, af því að hann gegndi til fullnustu því hlutverki skáldsins, að minna menn á hluti, sem þeir höfðu gleymt eða túlkað ranglega, eða á það, sem þeir gerðu sér ekki grein fyrir, að þeir vissu."

---

Dr. RICHARD BECK:

## VETUR OG VOR

Þó að vetur klakaklær
kalda nísti foldu,
vorsins heita hjarta slær
hægt í djúpri moldu.

Senn þau heitu hjartaslög
hlýja jarðarvanga,
bráðna fanna- og frostalög,
fögur blómin anga.

## KVEÐJA TIL KJARVALS ÁTTRÆÐS

Tindum frá til fjörusands,
í fögrum skáldasýnum,
þú hefir túlkað tign vors lands
með töframætti þínum.

# Ný bók

**Snæbjörn Jónsson:**

**LOKASJÓÐUR**
**Greinasafn.**

Þetta er þriðja bók Snæbjarnar af þessu tæi, og segir útgefandi, og reyndar einnig höfundurinn, að nafnið eigi að tákna, að það muni verða síðasta bókin þess efnis. En lokasjóður á sér eldri merkingu. Hann er íslenzk blómjurt, sem fær nafn sitt af Loka.

Í bókinni eru um þrjátíu greinar og því enginn vegur til að nafngreina þær allar. Þó má geta þess, að fjórir Vestur-Íslendingar fá þar góða útreið; þá eru allmargar æviminningar, og eins og gengur og gerist er þar kostanna aðeins getið, svo allir verða englar eftir dauðann.

Framarlega í bókinni er athyglisverð grein um sálmabókina íslenzku. Bendir höf. meðal annars á, að sálmarnir séu óþarflega margir og fjöldi þeirra aftur úr tímanum. Rétt um sama leyti og ég var að lesa þetta hittist svo skrítilega á, að foringi sameinuðu kirkjueildanna ensku í Kanada lét yfirheyra sig á sjónvarpi um trúarleg efni. Kvartaði hann einmitt yfir því sama, að fjöldi af ensku sálmunum í bók þeirra samræmist ekki lengur hugsunarhætti eða trúarhugmyndum nútímans, og nærri grátlegast sé, að margir fegurstu og hugljúfustu sálmarnir verði að fara úr bókinni af þeim ástæðum. Er þetta ekki sízt eftirtektarvert vegna þess, að þessar kirkjudeildir hafa ekki fengið sérstakt orð á sig fyrir frjálslyndi í trúarefnum. Duttu mér þá í hug Passíusálmarnir, sem þrátt fyrir formfegurð og andríki, eru algerlega byggðir á blóðfórnarhugmyndinni, sem að vonum er nú dauð. Um eitt get ég þó ekki verið höf. samdóma. Hann tekur til fyrirmyndar sálm eftir deyjandi tæringarsjúkling, sem gerir drottin að blíðlyndri barnfóstru eða hjúkrunarkonu. Það stoðar ekki lengur að segja, að Guð sé ekki í storminum, en kenna þó jafnframt, að hann sé allt í öllu. Hvað verður þá sagt um jarðskjálftana, fellibyljina og stórflóðin, sem tortíma og límlesta þúsundir manna og skepna árlega?

Höfundur kvartar yfir því í þessari bók, eins og svo víða annarsstaðar, að íslenzku ritmáli fari mjög aftur í landinu, einkum blaðamálinu. Eitthvað kann nú að vera hæft í þessu, en er það þá ekki bein afleiðing af hraðanum, sem allstaðar virðist að vera í vexti? Nú eru nærri allir hættir að lesa — skima bara yfir síðurnar til þess, að ná efnisþræðinum. Slík lestraraðferð hvetur ekki rithöfunda til að vanda sig. Hér í landi er það beinlínis kennt, að hraðlesa. Ritdómarar stórblaðanna fá að jafnaði heila bók á dag og verða að skila umsögninni á hverju kvöldi fyrir miðnætti, svo morgunblaðið geti birt hana næsta morgun. Sjáflur er ég svo gamaldags, að ég les hvert orð, ef ég á annað borð byrja á bók. Með því fæ ég oft meiri ánægju út úr einni vel sagðri málsgrein en heilum kapitula.

Bókinni fylgja 24 ágætar myndir, og eru þær allar í heild aftast, nema ein, en hún er af Winston Churchhill ásamt grein um hann fremst í bókinni.

G. J.

Oscar Jónasson og kona hans, Riverton, Manitoba.

19. Stefanía Steinsson í Riverton, Man., 87 ára. Flutti vestur frá Íslandi 1879 og átti heima í Riverton mestan hluta ævi sinnar.

21. Guðrún Kristjana Sigurðson, að heimili sínu í Winnipeg. Fædd að Otto, Man., en búsett í Winnipeg síðastliðin 40 ár.

22. Dr. jur. Guðmundur Grímson, fyrrv. hæstaréttardómari í N. Dakota, í Grafton, N. Dak. Fæddur 20. nóv. 1878 að Kópareykjum í Reykholtsdal í Borgarfjarðarsýslu. Foreldrar: Steingrímur Grímsson og Guðrún Jónsdóttir. Fluttist með þeim vestur um haf 1882, en þau námu land í grennd við Milton, N. Dakota. Víðfrægur lögfræðingur, árum saman héraðsdómari í N. Dakota, síðan hæstaréttardómari í rúman áratug og um skeið forseti hæstaréttar ríkisins.

23. Sigurður Guðmundsson, á elliheimilinu „Betel“ að Gimli, Man. Fæddur 19. sept. 1882 í Hólakoti á Reykjaströnd í Skagafirði. Foreldrar: Guðmundur Guðmundsson frá Áshildarholti og Margrét Jónsdóttir frá Ingveldarstöðum. Kom til Kanada 1906 og nam land við Elfros, Sask., og bjó í þeirri byggð í 31 ár, síðan nokkur ár í Argyle, Man., en eftir það á Gimli.

25. Jón Karvelsson í Árborg, Man. Fæddur að Þorvaldsstöðum í Skriðdal, Suður-Múlasýslu 10. febrúar 1869 Foreldrar: Karvel Halldórsson og Sigrún Runólfsdóttir. Fluttist vestur um haf til Gimli með foreldrum sínum 1883, en hafði verið bóndi í Framnesbyggð 55 ár.

25. Guðlaug Eggertson, ekkja Ingvars Eggertssonar í Winnipeg, 83 ára. Fædd á Íslandi; átti fyrrum heima í Mikley, Cypress River, Selkirk og Riverton, Man.

27. Unnur Sigvaldason, ekkja Jakobs Sigvaldason í Víðir, Man. Fædd í Riverton, Man., 26. nóv. 1883. Foreldrar: Snorri Jónsson og Kristjana Sigurðardóttir.

29. Guðrún Jónína Davidson, ekkja Trausta Davidson í St. Catherines, Ont. Fædd 22. júlí 1887 í Villingadal í Eyjafirði. Foreldrar: Þorlákur Þorláksson og Margrét Guðmundsdótir. Kom til Kanada með móður sinni 1913 og hafði lengst af átt heima að Gimli, Man.

Í þeim mánuði. — Björg Ásgrímsson, ekkja Helga Ásgrímssonar frá Gardar, N. Dak., á sjúkrahúsi í Grafton, N. Dak., sjötug að aldri. Frá Breiðstöðum í Gönguskörðum í Skagafirði. Foreldrar: Jónas Jónasson og Anna Kristjánsdóttir. Kom með þeim vestur um haf til Gardar, er hún var 10 ára gömul.

## JÚLÍ 1965

3. Gísli Johnson, vélamaður í Riverton, Man., af slysförum, 34 ára að aldri.

4. Ólafur Bjarnason, á heimili sínu að Gimli, Man. Fæddur að Snotrunesi í Borgarfirði eystra, Norður-Múlasýsla, 3. des. 1879. Foreldrar: Bjarni Pálsson og Jóhanna Bjarnadóttir. Fluttist vestur um haf 1903 og settist að á Gimli. Vann að fiskitöku um 40 ára skeið. Tók mikinn þátt í íslenzkum þjóðræknismálum.

13. Anna Guðmundson Hope frá Winnipeg í Fort Churchill, Man., 68 ára að aldri. Fluttist með foreldrum sínum til Winnipeg tveggja ára og átti þar heima síðan.

21. Sigfús Bergman, að Gimli, Man., 79 ára gamall. Stundaði búskap og fiskiveiðar frá því að hann flutti frá Íslandi til Gimli 1887.

23. Ólafur Jónasson vélfræðingur, að heimili sínu í Winnipeg. Fæddur að Vogar, Man., 14. jan. 1898. Foreldrar: Landnámshjónin Jónas Kristján Jónasson og Guðrún (Guðmundsdóttir) Jónasson.

23. Guðbjörg Björnson, ekkja Magnúsar F. Björnsson, að Mountain, N. Dak. Fædd 17. marz 1880 að Gimli, Man. Foreldrar: Sigurbjörn Guðmundsson frá Nýja Hóli á Hólsfjöllum og Anna Sigríður Guðnadóttir. Fluttust vestur um haf til Nýja Íslands 1879, en til N. Dakota 1882, og námu land í grennd við Mountain.

29. Walter Guðjón Johnson, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur að Otto, Man., 30 des. 1903. Foreldrar: Filip Jónsson og Þórdís Þorsteinsdóttir, er fluttust vestur um haf skömmu fyrir aldamótin og reistu bú nálægt Otto.

31. Guðný Margrét Friðriksdóttir Thorwaldson í Los Angeles, Californiu. Fædd 16. nóv. 1884 að Gardar, N. Dakota. Foreldrar: Friðrik Jóhannesson frá Garði í Fnjóskadal og seinni kona hans Ingibjörg Guðmundsdóttir, ættuð úr Fáskrúðsfirði. Hafði átt heima í Los Angeles síðan 1942. Forystukona í íslenzkum félagsmálum á þeim slóðum.

## ÁGÚST 1965

1. Haldor (Slim) Haldorson, að heimili sínu í Winnipeg, 66 ára að aldri. Einn hinna íslenzku skautakappa, er mynduðu hinn víðfræga Falcon Hockey leikflokk í Winnipeg, sem vann heimsmeistaratitilinn í þeirri íþrótt í Olympíuleikjunum í Antverp 1920. Lék síðan með ýmsum kunnum Hockey leikflokkum bæði í Kanada og Bandaríkjunum þar til hann hætti 1938. Eftir það var hann búsettur í Winnipeg, fæðingarborg sinni.

2. Jón Eiríksson í Riverton, Man. Fæddur þar 30. nóv. 1880. Foreldrar: Eiríkur Eymundsson og Helga Johannesdóttir, er fluttust vestur um haf 1878, voru fyrstu tvö árin í Pembina, N. Dak., en fóru síðan til Riverton. Fiskimaður og bóndi og annaðist lengi póstflutninga milli Riverton og Mikleyjar.

6. Axel Ingimar Melsted, bóndi að Árnes, Man. Fæddur að Nýjabæ á Hólsfjöllum í Norður-Þingeyjarsýslu. Foreldrar: Jón Jónasson og Elín Sigurbjörg Jónsdóttir. Kom vestur um haf frá Vopnafirði 1889 og nam land í Árnesbyggð.

7. Hólmfríður Björg Olsen, ekkja Oliver Olsen, að heimili sínu í Winnipeg, 86 ára. Fædd að Mountain, N. Dak., en fluttist fimm ára gömul til Markerville, Alberta, en þaðan til Winnipeg aldamótaárið.

8. Ruby Bernics Oddleifson, ekkja Sigurbergs Oddleifson, fyrrum búsett í Árborg, Man., á heimili sínu í Winnipeg, 59 ára að aldri.

9. Thora Gestson, ekkja Sigurjóns Gestson, í Santa Barbara, Calif. Fædd 24. nóv. 1864. Foreldrar: Jóhannes Torfason á Eldjárnsstöðum í Norður-Þingeyjarsýslu og Helga Daníelsdóttir. Kom með þeim vestur um haf til N. Dakota 1883.

11. Carl Richard Benson, að heimili sínu í Winnipeg. Fæddur þar í borg, og hafði lengi verið starfsmaður hjá Canadian Pacific Járnbrautarfélaginu.

13. Guðmundur Andréson, á sjúkrahúsi í Burnaby, B.C. Fæddur á Íslandi 30. nóv. 1882, en fluttist með foreldrum sínum til Mountain, N. Dakota, er hann var sex mánaða gamall, og seinna þaðan til Piney, Man. Lengi búsettur í Winnipeg, en síðan 1943 í Burnaby.

16. Jónína Olson, ekkja Péturs Olson, að heimili sínu í Winnipeg, 81 árs að aldri. Fædd á Íslandi, en kom til Kanada tuttugu ára gömul. Átti heima í Winnipeg síðustu 39 árin.

20. Kristjana Ólafía Sigurrós Carpenter, að heimili sínu í Winnipeg, 73 ára að aldri. Fædd í Reykjavík, flutti til Kanada 1905 og átti heima í Winnipeg síðastliðin 50 ár.

20. Kristín Egilsson, ekkja Halls Gíslasonar Egilsonar, á elliheimili í Yorkton, Sask. Fædd 22. apríl 1879 í Sperðluhlíð, Suðurfjarðarhreppi, Vestur-Barðastrandarsýslu. Kom vestur um haf til Kanada með foreldrum sínum, Einari Jónssyni Suðfjörð (Sedford) og Guðbjörgu Einarsdóttur, 1883. Átti lengi heima í Calder, Sask., en síðan 1943 í Yorkton.

26. Eric Peterson, á dvalarheimili í Bellingham, Wash. Fæddur 12. júlí 1879 í N. Dakota. Fluttist til Elfros, Sask., 1910, nam þar land og stundaði búskap í 30 ár. Flutti síðan til Seattle og Point Roberts, Wash., en átti heima í Blaine, Wash., seinustu 15 árin.

30. Oscar Sigurður Gillis, í Morden, Man. Fæddur 2. des. 1920 í Brown byggðinni íslenzku. Foreldrar: Ragnar og Salome Gillis, er lengi bjuggu þar í byggð, en nú búsett í Morden.

## SEPTEMBER 1965

7. Robert John Benson, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur í Davidson, Sask., 1894. Foreldrar: Benedikt Jóhannesson frá Naustavík í Köldukinn í Þingeyjarsýslu og Rósa Guðmundsdóttir frá Vatnakoti í Eyjafjarðarsýslu. Flutti með foreldrum sínum til Winnipeg barn að aldri og átti þar heima í 68 ár. Í hópi íslenzka Falcon Hockey leikflokksins, sem vann sér heimsfrægð með sigri sínum í Olympíuleikjunum 1920. Lék síðar með ýmsum kanadiskum og amerískum leikflokkum við mikinn orstír.

14. Jón Sigurdson, að Lundar, Man., 85 ára að aldri.

16. H. Oscar Olson múrari, á heimili sínu í Winnipeg. Fæddur 10. júní 1898. Foreldrar: Guðmundur Eyjólfsson Guðmundssonar prests að Hólmum í Reyðarfirði og Þóru Þorleifsdóttur frá Villingdal í Haukadal í Dalasýslu. Kom með móður sinni til Kanada um aldamótin; átti heima í Winnipeg síðastliðin 50 ár.

19. Jón Ólafsson trésmiður, að heimili sínu í San Jose, Calif. Fæddur á Akranesi 10. des. 1884, en fluttist vestur um haf snemma á öldinni. Átti um skeið heima í N. Dakota, en síðan árum saman í Californiu.

21. Hlaðgerður Kristjánsson, að heimili sínu í Winnipeg. Fædd að Hraunkoti í Aðaldal 29. jan. 1883. Foreldrar: Jónas Kristjánsson og Guðrún Þorsteinsdóttir. Flutti með þeim vestur um haf til Pembina, N. Dakota, 1893, en hafði síðan 1901 átt heima í Winnipeg. Listræn kona og sönghneigð, er tók mikinn þátt í íslenzkum félagsmálum.

22. Sesselja (Setta) Bessason, ekkja Kristjáns Bessasonar, á elliheimilinu „Betel“ að Gimli, Man., 91 árs að aldri. Flutti frá Íslandi til Kanada 1892 og hafði átt heima í Selkirk síðan 1914.

24. Clarence Johnson frá Mikley, Man., af slysförum, 26 ára gamall. Foreldrar: Thorvaldur Johnson og kona hans í Mikley.

25. Björgvin Ágúst Hólm, vélstjóri frá Árborg, Man., fórst á Winnipegvatni. Fæddur í Winnipeg 16. ágúst 1907. Foreldrar: Sigurður Eiríksson Hólm, landnámsmaður í Framnesbyggð og Guðrún Jónsdóttir. Fluttist með þeim til Nýja Íslands 1917. Áhugamaður um félagsmál.

27. Kristín Thorgilsson frá Vestfold, Man., í Winnipeg. Fædd að Vestfold 2. marz 1893 og hafði átt þar heima ævilangt. Foreldrar: Landnámshjónin Finnbogi og Málmfríður Thorgilsson.

30. Eysteinn Borgfjord frá Riverton, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur 9. sept. 1895 á Egilstöðum á Völlum, Suður-Múlasýslu. Foreldrar: Sigfús Sigfússon úr Borgarfirði eystra og Sigríður Eiríksdóttir Rafnkelssonar frá Hofi í Öræfum í Vestur-Skaptafellssýslu Átti lengstum heima í Árnesbyggð í Nýja Íslandi.

### OKTÓBER 1965

4. Dr. Thorbergur Thorvaldson prófessor í Saskatoon, Sask. Fæddur að Ytri-Hofdölum í Blönduhlíð í Skagafriði 24. ágúst 1883. Foreldrar: Þorvaldur Þorvaldsson og Þuríður Þorbergsdóttir, bæði ættuð úr Skagafirði. Fluttist með þeim vestur um haf í Árnesbyggð í Manitoba 1887. Áratugum saman prófessor í efnafræði og forseti þeirrar háskóladeildar við Fylkisháskólann í Saskatchewan (Univ. of Saskatchewan). Víðfrægur vísindamaður, einkum fyrir steinsteypu-rannsóknir sínar og uppgötvanir á því sviði.

7. Pauline (Pálína) Shield, ekkja Egils Shield (Skjöld) lyfjafræðings, á sjúkrahúsi í Newport Beach, Calif. Fædd að Akra, N. Dakota, 15. marz 1887. Foreldrar: Landnámshjónin Stígur Þorvaldsson frá Kelduskógum í Suður-Múlasýslu og Þórunn Björnsdóttir, Péturssonar alþingismanns og Únítaraprests.

9. Sveinbjörn (Swanie) Peterson í Burns Lake, B.C., 59 ára. Hafði verið stöðvar- og símastjóri fyrir Canadian National Járnbrautarfélagið í 40 ár í Dauphin og Pine River, Man. og síðustu fjögur árin í Burns Lake.

14. Guðmundur Kristmar Daníelson í Winnipeg, 55 ára. Fæddur í Mikley, Man. Foreldrar: Thorleifur Daníelsson (látinn) og Vilhelmína Helgadóttir Ásbjörnssonar, sem lengi bjuggu að Skógarnesi í Mikley.

16. Emilía Guðrún Oddson, ekkja Vilhjálms Oddson, á sjúkrahúsinu í Árborg, Man., 72 ára að aldri. Fædd að Geysir, Man., og átti þar heima ævilangt.

17. Friðrik (Fred) Elíasson frá Saskatoon, Sask., í Vancouver, 41 árs að aldri. Foreldrar: Jens Elíasson og kona hans í Winnipeg.

21. Halldóra Ólafía Jónasdóttir Thorsteinsson, á elliheimilinu „Betel“ að Gimli, Man. Fædd á Akranesi 18. ágúst 1890. Foreldrar: Jónas Íkaboðsson og Anna Sveinbjarnardóttir. Fluttist vestur um haf með foreldrum sínum til Winnipeg 1911 og hafði lengstum átt þar heima. Gat sér orð fyrir handavinnu og heimilisiðnað. Meðal sona hennar er dr. Jónas Thorsteinsson, prófessor við Manitobaháskóla.

23. Guðrún Rósa Ólafson, kona Thorgríms Ólafssonar landnámsm. í Sinclairbyggð í Manitoba, á hjúkrunarheimili í Winnipeg. Fædd í Hausthúsum í Leiru í Gullbringusýslu 29. sept. 1874. Foreldrar: Þorsteinn Einarsson og Kristín Guðmundsdóttir. Fluttist til Winnipeg með föður sínum 1901.

26. Pauline Oddson, Riverton, Man., 84 ára að aldri. Fædd við Íslendingafljót. Foreldrar: Ólafur Oddsson frá Kollaleiru í Reyðarfirði og Kristbjörg Antoníusdóttir, landnámshjón að Fagraskógi í Riverton, Man. Einn bræðra hennar er Oddur Ólafsson, fyrrum þingmaður í Riverton.

### NÓVEMBER 1965

1. Kristján Kristjánsson kaupmaður, að Garðar, N. Dak. Fæddur í Bolungarvík, N. Ísafjarðarsýslu 10. des. 1891. Foreldrar: Kristján Halldórsson og Petrína Guðmundsdóttir. Fluttist vestur um haf 1916 og átti fyrst heima 15 ár í New York og stundaði húsasmíðar, en hafði verið búsettur á Garðar síðan 1938 og rekið þar verzlun.

5. Jón Halldórsson, að heimili sínu í Winnipeg, 81 árs að aldri. Fæddur á Íslandi, en fluttist með foreldrum sínum til Manitoba 1893. Fyrrum fiskimaður í Mikley og Riverton, en átti heima í Winnipeg síðan 1922.

8. Jón Vilsteinn Baldvinsson, bóndi á Kirkjubæ að Hnausum, Man., á heimili sínu. Fæddur þar 30. nóv. 1884 og átti þar heima ævilangt. Foreldrar: Landnámshjónin Baldvin Jónsson og Arnfríður Jónsdóttir, er námu land að Kirkjubæ þegar þau komu frá Íslandi 1878.

16. Elizabeth Bennett, á heimil siínu í Winnipeg, 89 ára gömul. Fædd á Íslandi, en fluttist ti lKanada fyrir 60 árum.

18. Bjarni Guðleifur Bjarnason, að Camp Morton, Man. Fæddur að Fagrabakka í Árnesbyggð í Nýja Íslandi 1. apríl 1888. Foreldrar: Þórður Bjarnason og Rebekka Stefánsdóttir. Átti heima í Gimlibyggð alla ævi og stundaði búskap og fiskveiði.

21. John Johnson í Winnipeg, 86 ára að aldri. Hafði átt heima þar í borg síðan hann kom frá Íslandi tveggja ára gamall.

22. Kristján S. Goodman, á sjúkrahúsinu að Gimli, Man. Fæddur 10. nóv. 1889 að Hvoli í Borgarfirði eystra. Foreldrar: Sveinn Guðmundsson og Þorbjörg Guðmundsdóttir. Fluttist með þeim vestur um haf til Lundar, Man., 1894. Lengi búsettur í Thicket Portage, Man., þar sem hann starfrækti sögunarmyllu.

25. Ólína Björg Bríet Christianson, á heimili sínu í Selkirk, Man. Fædd á Kirkjubæ í Norðurárdal í Húnavatnssýslu 27. okt. 1872. Foreldrar: Ólafur Guðmundsson Nordal og Margrét Ólafsdóttir. Fluttist með þeim til Kanada 1883 og hafði átt þar heima síðan 1885.

Snemma í þeim mánuði. — Eiríkur Ágúst Eastman, á elliheimili í Melfort, Sask. Fæddur að Akra, N. Dakota, 1. ágúst 1885. Foreldrar: Jón Austmann og Guðlaug Halldórsdóttir, er fluttust vestur um haf til N. Dakota 1883. Lengi bóndi í Elfros, Sask. Tók mikinn þátt í félagsmálum þar í byggð.

## DESEMBER 1965

13. Ásgeir Jörundson, að Lundar, Man., 75 ára. Kom frá Íslandi til Kanada fyrir 62 árum og hafði lengstum stundað búskap að Lundar.

15. Hallgrímur Magnússon, að Gimli, Man., 78 ára gamall. Fæddur að Árnes, Man. Stundaði fiskiveiðar og bátasmíðar.

17. Edwin Gestur Baldwinson, á hermannasjúkrahúsi í Ottawa, Ont. Fæddur í Reykjavík 8. marz 1893. Foreldrar: Baldwin L. Baldwinson, fyrrum ritstjóri **Heimskringlu**, fylkisþingmaður og aðstoðar-fylkisritari í Manitoba, ættaður af Akureyri og Helga Sigurðardóttir frá Jaðri í Skagafirði. Lögfræðingur að menntun og stundaði um alllangt skeið lögfræðileg störf í Winnipeg, en hafði mörg ár átt heima í Ottawa.

18. Daníel Harley Snidal frá Winnipeg, í bílslysi, 38 ára að aldri. Foreldrar: John J. Snidal tannlæknir (látinn) og Anna Snidal í Winnipeg.

23. Paul Johnson frá Vogar, Man., á sjúkrahúsinu í Eriksdale, Man., áttræður.

24. Tryggvi Snifeld í East Selkirk, Man., 62 ára gamall. Lengstum bóndi að Hnausum, Man.

31. Guðrún Anna Erlendson, að heimili sínu í Árborg, Man., 69 ára að aldri. Fædd í N. Dakota, en búsett í Árborg mestan hluta ævinnar.

---

# Fertugasta og sjötta ársþing

Við setningu þessa fertugasta og sjötta ársþings Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi vil ég fyrst og fremst bjóða alla fulltrúa og þinggesti velkomna, sem einstaklinga innan félagsskaparins og sem deildarfulltrúa frá hinum ýmsu deildum, og svo næst að láta ósk mína og von í ljósi um, að þið takið öll höndum saman til að gera þetta þing afkastamikið, ánægjulegt og Íslendingum til heiðurs og sóma! Það er í ykkar valdi að setja svip á þetta þing, eins og á öll hin mörgu, sem haldin hafa verið á liðnum árum, og hafa endurspeglað hugsanir, áform, vonir, drauma ykkar, og vor allra, um nútíð og framtíð hins íslenzka þjóðarbrots hér vestra.

Þessa næstu þrjá daga sitjum vér þingfundi, samkomur og skemmtanir. Í gærkvöldi var komið saman við messuhald, í þessari kirkju, (Fyrstu Lútersku kirkju) og fyrrverandi forseti okkar, dr. Beck, flutti þar ræðu og annar fyrrv. forseti, dr. Valdimar J. Eylands, prestur þessarar kirkju stýrði guðsþjónustunni. Síðan gafst okkur tækifæri til að drekka kaffi saman, og að hitta hver annan, — að heilsast og endurnýja gamla viðkynningu, og að taka á móti gestum vorum, sem sitja þingið með okkur, og taka þátt í því á einn eða annan hátt.

Og nú byrjum við á aðal þinghaldi okkar, að gera ákvarðanir, bera fram nefndarálit, semja skýrslur, gera tillögur, sem munu allar, hver með sínum hætti, skapa framtíð þessa félags, því gerðir vorar allar hafa það í sínu valdi, að setja svip á framtíðina. Það er von mín, og ég er viss um að það er von vor allra, að sá svipur verði til framfara og uppbyggingar, og í samræmi við hugsjónir þeirra manna og kvenna, sem komu saman á hið fyrsta þing Þjóðræknisfélagsins fyrir 46 árum — á stofnfund þess.

En framför kemur með sínum vissa, og einkennilega hætti. Um eða fyrir síðustu aldamót skrifaði maður um framfara hugsjónina, en þau orð voru þannig:

„Framför vor til fullkomnunar verður að vera stig af stigi, hún getur ekki verið hvíldarlaust flug. Vér höfum alltaf eftir einhverju að keppa, og fjarlægðin á milli þess, sem vér erum og þess, sem vér ættum að vera, á milli þess, sem vér óskum og þess, sem vér náum, er svo tilfinnanlega mikil. Yfir þessa fjarlægð getum vér komizt aðeins með stöðugri, hlífðarlausri áreynslu, sem með tímanum verður að þolgóðri atorku. Vér getum ekki umflúið þessa kröfu til hinna hálf viljalausu krafta vorra, og þess vegna verðum vér að vera reiðubúnir ýmist til að **knýja kraftana áfram** eða til að safna nýju hugrekki þegar vér ætlum að láta hugfallast."

Þetta sagði þessi maður, sem hét James Martineau. En þar sem að hvergi meðal okkar er hugsað eða talað um „hugfall", þá er það fyrir okkur að „knýja" kraftana áfram, og það gerum vér hér á þessu þingi, bæði í dag og á hinum næstkomandi dögum. Og það gæti orðið að hvatning til dugs og dáða í þjóðræknisstarfsemi vorri — á þingum vorum og öllum þingfundum. Það er að segja, að „knýja kraftana áfram". Það er til þess, sem vér erum komin hér saman á þetta þing, til að **„knýja kraftana áfram"**, svo að öll vor mál, allar vonir og draumar um framtíðina, nái tilgangi sínum að lokum.

Á hinu liðna ári, síðan að við sóttum hið síðasta þing, hefur margt gerzt og mikið verið unnið innan þess verkahrings, sem aðalstjórn félagsins og deildanna var falið að vinna að. Og þar má telja samvinnu við önnur félög, sem vinna að og styðja samskonar málefni og við. En samtímis höfum við ekki ávallt notið glaðværra og áhyggjulausra stunda því skuggar hafa á vissum tímum hulið sólina og vér höfum hvílt í myrkri sorgar og vinamissis, er vér höfum orðið að sjá á bak góðra manna og kvenna, sem einu sinni stóðu í hópi vorum, og glöddust með oss og sem tóku þátt í gleðistundum, með vinum og félagsmönnum er tækifæri veittust til að koma saman og fagna góðum gestum. Þá var lífið gott og fagurt, er tækifæri gafst til að treysta vinaböndin.

En lífið er ekki allt ein gleðistund. Það ber líka sorg í skauti sér og hryggð og hjartaangist. Enginn fær að flýja eða færast undan slíkri reynslu. Allir ganga sömu braut fyrr eða síðar — það vitum vér. En það dregur ekki úr þeim sársauka, sem grípur oss, er vér verðum að kveðja þá, sem stóðu hér með oss fyrir örstuttum tíma, — og sem voru oss góðir og ástkærir vinir.

Þess vegna sameinumst vér nú í anda með öllum, sem misst hafa ástvini á liðnu ári, og ekki sízt þeim, sem stóðu á einn eða annan hátt með oss í þessu félagi.

Það er venja að lesa upp nöfn þeirra

félagsbræðra og systra, sem dáið hafa á árinu, og geri ég það nú aftur í þetta sinn í byrjun þessa þings, til minningar um þau, sem eru ekki með oss lengur, en lifa þó í kærleiksríkri minningu.

Fyrst vil ég minnast konu sem vér þekktum öll og virtum mikils, konu gjaldkera okkar, Grettis L. Johannson, ræðismanns, frú Lalah Johannson.

Hún var manni sínum styrkur og stoð í öllum hans framkvæmdum. Hún var gestrisin mjög og það var ekki sjaldan, sem við í Þjóðræknisnefndinni og félagsmenn margir fengum að njóta góðs af gestrisni hennar, og þeirra hjóna beggja. Hún var alltaf glöð í viðmóti, og bar sig ævinlega vel, jafnvel til þess síðasta, þó að mikill óstyrkleiki væri farinn að þjá hana. Það var öllum, sem þekktu hana, undantekningalaust mikil sorgarfrétt, er það barst út að hún væri dáin.

Annar vinur góður, vinur Þjóðræknisfélagsins, vinur íslenzka vikublaðsins, Lögbergs-Heimskringlu, vinur allra Íslendinga — vestanhafs og austan, sendiherra heima þjóðarinnar í Canada og Bandaríkjunum og víðar, sendiherra Íslands á þingi Sameinuðu Þjóðanna, hr. Thor Thors varð bráðkvaddur snemma í janúarmánuði, og var andlát hans mikill harmur öllum Íslendingum, hvar sem í heiminum þeir búa.

Herra ræðismaður, Grettir Johannson, féhirðir Þjóðræknisfélagsins ferðaðist til Washington í nafni félagsins og bar kveðju okkar og samúðarorð til frú Ágústu, ekkju þessa mikla og mæta manns. Vér minnumst hans með einlægum kærleika og gleymum seint þessum einlæga og trygga vini, sem skildi okkur Vestur Íslendinga og okkar áhugamál manna bezt.

Svo vil ég minnast með örfáum orðum þeirrar góðu konu, sem heimsótti okkur Vestur-Íslendinga, með manni sínum, hr. Ásgeiri Ásgeirssyni, forseta Íslands, haustið 1961, frú Dóru Þórhallsdóttur. Vér þjóðræknismenn og Vestur-Íslendingar hörmum fráfall hennar, og ég endurtek nú, með þessum orðum, þá samúðarhugsun, sem var send manni hennar og börnum, fyrir hönd félagsins s.l. september, er hin óvænta frétt barst til okkar.

Einn æfifélagi dó á árinu, og sem var á sama tíma styrktarfélagi, Mrs. Mekkin S. Perkins, sem bjó í Des Moines, California.

Aðrir félagar sem dáið hafa á árinu, en þó e. t. v. ekki allir, því fréttir um andlát félaga út um byggðir eða vestur á strönd eða víðar, berast ekki alltaf til okkar fyrr en skýrslur deilda eru bornar fyrir þing. En þetta liðna ár eins og áður, höfum við átt á bak að sjá úr hópi vorum mörgum ágætum félagsbræðrum og systrum, og þau eru þessi, eftir því, sem mér er bezt kunnugt, auk þeirra, sem ég er búinn að nefna:

Soffanías Thorkelsson, Victoria, B.C. fyrrverandi forseti deildarinnar Frón; Bella Straumfjörð, Blaine, Washington; Jakob J. Norman, Wynyard, Saskatchewan; Gísli Einarson, Riverton, Manitoba; Mrs. Sigurfinna Caine, Winnipeg; Hannes Anderson, Winnipeg; Chris O. Einarson, Winnipeg; Johannes Christie, Winnipeg, látinn á Íslandi; Valgerður Sigurðson, Arborg, Manitoba; Kristjón Sigurðson, Arborg, Manitoba; Halldór Austman, Arborg, Manitoba; L. M. Jóhannesson, Arborg, Manitoba; Kristján Einarson, Prince Rupert, B.C.; W. J. Arnason, Gimli, Manitoba. (Gjaldkeri deildarinnar „Gimli".); Sigurður Ingimundur Sigurðson, Lundar, Manitoba; Mrs. Jónína Hjálmson, Winnipeg; Vigfús Guttormson, Lundar, Manitoba; Eiríkur Hallson, Lundar, Manitoba; Jón A. Björnsson, Lundar, Manitoba; Anna Johnson, B.C.; Guðmundur Gíslason, B.C.; Erika Dalman, B.C.; Lýður Sigurðsson, B.C.; Margrét Ann Steen, B.C.; Helga Johnson, B.C.; Albert Davíðsson, B.C.; Frederick Josephson, B.C.; Sigurður Torfason, B.C.; S.B. Olson, B.C.; Björn Thorvaldson, B.C.; Kristján Matthíasson, B.C.; Mundi Kristjánsson, B.C.

Vér vottum aðstandendum þessara starfsmanna vorra og kvenna innilega samúð vora, en minningu þeirra heiðrum vér með því að rísa úr sætum.

Vitur maður hefur sagt: „Þakkarskuldin er eina skuldin, sem auðgar manninn". — Minnug þess, skulum vér láta þakkarhugann til hinna horfnu félagssystkina verða oss hvatning til dáða og málstað vorum til eflingar.

Með það í huga, og með þeim skilningi að lífið kallar og ábyrgðir þess með, verður nú fljótlega horft yfir síðasta starfsár, og með því ber ég fram fyrir hönd meðnefndarmanna minna nokkurskonar reikningsskil, til þess að þingheimur geti séð og dæmt um hve vel eða illa við höfum gengt embættum vorum.

Mér finnst að árið hafi verið atburðaríkt ár, og framfara ár, í anda þeirra orða, sem ég las í byrjun þessarar skýrslu, og allir nefndarmenn hafa komið fram sem þeir hefðu heyrt þá hvatningu og gert sitt ítrasta til að hlýða henni. Þeir hafa undantekningalaust verið reiðubúnir við öll tækifæri til að **„knýja kraftana áfram"**, og koma því í verk, sem þeir vissu var ætlazt til af þeim, og jafnvel oft, gert meira í þágu félagsins en nokkur hefði getað með réttu krafizt af þeim. Ég þakka samnefndarmönnum mínum öllum samvinnuna á liðnu ári og, vegna þeirra, hve léttilega forsetastaðan hefur hvílt á mér.

En hér verður líka að teljast með fyrrverandi nefndarmaður og fyrrverandi forseti félagsnis, dr. Richard Beck. Þó hann sé ekki lengur í nefndinni, vinnur hann enn mörg góð og þarfleg þjóðræknisverk, og hefur gengizt inn á það að tala fyrir okkar hönd við ýms tækifæri og flytja kveðjur frá félaginu. Þannig var hann, samkvæmt sérstökum tilmælum stjórnarnefndarinnar, fulltrúi félagsins í Íslandsferð þeirra hjóna s.l. sumar. Hann flutti kveðjur félagsins og Vestur-Íslendinga á afar fjölmennri þjóðhátíð 17. júní í Reykjavík á tuttugu ára afmæli íslenzka lýðveldisins, sem útvarpað var samtímis; ennfremur í byrjun fyrirlesturs um vestur-íslenzka þjóðræknisstarfsemi, sem hann flutti í Háskóla Íslands, á gestamóti Þjóðræknisfélagsins í Reykjavík, á tveim kennaraþingum, á Prestastefnu Íslands, á ársfundi Skógræktarfélags Íslands, sem haldið var á Laugarvatni, og á mörgum öðrum samkomum norðan lands og sunnan. Dr. Beck flutti kveðju og fréttaávarp frá Vestur-Íslendingum í Íslenzka Ríkisútvarpið stuttu eftir að þau hjónin komu til landsins í júní byrjun, og kveðju til þjóðarinnar kvöldið áður en þau lögðu af stað vestur aftur s.l. sept.

Skylt er einnig að geta þess, að herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands, bauð dr. Beck, sem fulltrúa Vestur-Íslendinga að vera viðstaddur innsetningarathöfnina í ágúst byrjun, er hann tók í fjórða sinn við embætti sem forseti þjóðarinnar.

Síðan að dr. Beck kom heim úr ferðalagi sínu, hefur hann flutt erindi um Ísland á ýmsum samkomum í Grand Forks, og meðal annars útvarpserindi um Leif Eiríksson og Vínlandsfund hans.

Af þessu öllu sést, að þó að dr. Beck sé ekki lengur í sjtórnarnefnd félagsins, þá telur hann sig samt enn vera fullrtúa félagsins og flytur mál þess vel og skörulega. Fyrir hönd hinna félagsmannanna allra, þakka ég honum áframhaldandi góðvilja og tryggð við félagið.

Innan nefndarinnar höfum við, eins og fyrr góða menn og konur; sumir hafa starfað í stjórnarnefndinni í fjöldamörg ár eins og t.d. fjármálaritarinn og gjaldkerinn, en aðrir eru nýir í nefndinni.

En allir hafa tekið að sér þau störf, sem þeim er úthlutað að vinna, af einlægni og samvizkusemi. Ritari vor, Mrs. Hólmfríður Danielson hefur, auk hinna venjulegu ritstarfa, flutt erindi um Ísland og íslenzka menningu á fundum Y.W.C.A. (Kristilegu Félagi Ungra Kvenna), og hún fór með nokkrar konur í fylgd með sér, í íslenzkum búningum, á samkomu Hjálpræðishersins, þar sem saman kom fólk af ýmsum öðrum þjóðum í þjóðbúningum sínum. Einnig hefur Mrs. Danielson kennt þremur miðskóla stúlkum íslenzku heima hjá sér einu sinni í viku í vetur.

Sem skrifari félagsins hefur hún sent deildunum útdrátt af fundargjörningum stjórnarnefndar til þess að þær deildir, sem þess æsktu, gætu fylgzt með þeim málum, sem rædd hafa verið á fundum vorum.

Alls á árinu hélt stjórnarnefndin sjö aðalfundi, en þar í viðbót voru aðrir fundir, skyndifundir og enn aðrir, þar sem þrír eða fjórir komu saman til að ræða eða að ganga frá ýmsum atriðum eða málum sem komið höfðu upp á aðal nefndarfundum. Nefndarmenn mættu líka hjá öðrum félögum í nafni Þjóðræknisfélagsins. Við höfum ekki verið iðjulaus.

Stjórnarnefndin hefir tekið til íhugunar öll þau mál, sem vísað var til hennar á síðasta þingi og fleiri mál og reynt að greiða úr þeim á einn eða annan hátt og mun ég aðeins nefna þau helztu.

Síðastliðið vor kom hingað til borgarinnar á vegum Manitóba háskólans hinn kunni Íslandsvinur **Dr. Gwyn Jones** sem samið hefir bækur um Ísland og gert þýðingar af nokkrum Íslendingasögunum. Hann flutti fyrirlestur í þessum sal undir umsjón deildarinnar **Frón**, en Þjóðræknisfélagið efndi til hádegisverðarboðs honum til verðskuldaðs heiðurs.

Ég fór síðan tafarlaust í bókabúð og keypti mér þar fjórar bækur um Ísland, um íslenzk mál og um Grænland, sem hann hafði samið, og af þeim þýðingum úr íslenzku á ensku, sem ég hefi séð og lesið, finnst mér þessar, eftir Gwyn Jones, vera með þeim beztu.

Hinn næsti stór-viðburður meðal vor Íslendinga var tuttugu ára afmæli hins íslenzka lýðveldis. Var þess minnzt hér í Kanada að tilhlutan féhirðis félagsins, Grettis Johannson, ræðismanns, og með aðstoð varaforseta, próf. Haralds Bessasonar. Barst rödd forseta Íslands, herra Ásgeirs Ásgeirssonar til kanadísku þjóðarinnar í tilefni af deginum 17. júní í þjóðarútvarpinu C.B.C., og landstjóri Kanada, Gov. Gen. George P. Vanier, flutti einnig nokkur vinarorð til þjóðarinnar og til Íslendinga. Þar voru líka leikin nokkur íslenzk lög og mæltist þessi útvarpsliður mjög vel fyrir. Þeir sem á hann hlýddu fundu að hér var um að ræða þjóð sem stóðst vel samanburð við aðrar menningarþjóðir.

Þessi viðburður var enn í fersku minni Íslendinga er annan bar að. Haldið var upp á 75 ára afmæli Íslendingadagsins, og forsætisráðherra Íslands, frú hans og sonur komu heimanað til okkar Íslendinga í heimsóknar- og kynningarferð, og að fagna yfir því, með þeim, hvað þeim hefur farnazt vel í þessu

landi. Landið byggðist á árunum eftir að Íslendingar settust hér að og áttu þeir sinn skerf í þeim framförum og þeim þroska sem átti sér stað. Það voru mikil landsvæði, sem þeir byggðu, og þeir stóðu sem jafningjar, hverra sem voru og á hverju sviði sem þeir völdu sér.

Íslendingadagsnefndin sem stóð fyrir komu þessara góðu gesta tók mjög vel og virðulega á móti gestunum og á Íslendingadeginum sjálfum var farið með forsætisráðherrann, og frú hans og fylgilið þeirra í siglingu á Winnipegvatni, frá Winnipeg Beach til Gimli. Veður var bjart en hægur vestan vindur lék um vatnið, sem gerði nokkurt öldurót en ekki til muna. Það var skemmtiskipaklúbbur í Winnipeg, the Winnipeg Yacht Club, sem sá um skipsferðina, og um öll skemmtiskipin, sem sigldu saman í fylkingu með forsætisráðherra skipinu klukkustundarferð til Gimli. En á bryggjunni þar var mikill fólksfjöldi, og meðal annarra bæjarstjóri Winnipegborgar til að taka á móti flotanum.

Íslendingadagsnefndin má vera hreykin af degi þessum. Þjóðræknisfélaginu þótti vænt um að geta haft samvinnu við þá nefnd um að gera daginn eftirminnanlegan og ekki sízt með því að lána minjagripi úr safni sínu, sem voru til sýnis úti í skemmtigarðinum.

Forsætisráðherra Íslands flutti eftirminnilega ræðu í garðinum, og meðal þeirra sem fluttu kveðjur var forseti þessa félags.

Miðvikudaginn 5. ágúst var samsæti haldið í Winnipeg til heiðurs forsætisráðherrahjónunum á International Inn af Íslendingadagsnefndinni. En þann sama dag, um hádegi, hafði fylkisstjórnin haldið heiðursgestunum samsæti á Fort Garry Hotel.

En á samsætinu á International Inn, afhenti ég, fyrir hönd Þjóðræknisfélagsins, gestunum viðeigandi gjafir, til minnis um komu þeirra til Winnipeg.

Eftir það tók Þjóðræknisfélagið við og ráðstafaði gerðum og heimsóknum gestanna, undir umsjá og leiðsögn herra ræðismanns, Grettis Johannsonar, honum og félaginu til mikils sóma.

Grettir og frú Lalah sáluga ferðuðust með heiðursgestunum sem fylgdarmenn eða leiðsögumenn, og varð það gestunum til mikillar og ómetanlegrar ánægju, því Grettir er þaulkunnugur þar vestra og þekkir marga á mörgum stöðum.

En áður en lagt var af stað héðan og vestur í Klettafjöll, var ferð gerð til Glenboro, og komið við á ýmsum stöðum þar, svo sem í kirkjunni á Grund, og svo að Baldur og Brú.

Síðan var ferðazt héðan til Edmonton, og þar tók félag Edmonton Íslendinga á móti ferðafólkinu á mjög virðulegan hátt. Þaðan var ferðazt til Red Deer og Markerville í virðingarskyni við minningu skáldsins mikla Stephans G. Stephanssonar. Þaðan var haldið til Banff og staðið þar við um tvo sólarhringa. Bílar komu frá Vancouver til að sækja gestina, og eftir því sem mér skilst var þessi hluti ferðalagsins hinn skemmtilegasti. Fjöllin sáust í sínum miðsumars skrúða, tignarleg og há, sólin skein og gaf af sér mátulegan hita, og ferðafólkið var glatt og hafði mestu ánægju af ferðinni.

Komið var við í Kelowna þar sem Íslendingur, Helgi Ólafson, hefur gististað (Motel) og þaðan svo til Vancouver og þjóðræknisdeildarinnar „Ströndin“. Þar var enn annar fagnaður — samkomufundur, og virðulega tekið á móti gestunum. En þar skildu gestirnir við leiðsögufólk sitt. Grettir og frú Lalah sálugu komu heim, en forsætisráðherrann og frú og þeirra fólk ferðuðust suður eftir ströndinni og svo til New York og síðan heim til Íslands.

Þátttaka Þjóðræknisfélagsins í komu og ferðalagi þessara góðu gesta er í hreinustu merkingu samvinna við Ísland og kemur undir þann starfslið félagsins. Stjórnin og félagið í heild sinni, er í þakkarskuld við féhirði félagsins, Gretti L. Johannson fyrir hans ágætu frammistöðu og leiðsögu í öllu sem fram fór. Án hans væri félagið miklu fátækara á mörgum sviðum en raun er á. Þjóðræknisfélagið er einnig í mikilli þakkarskuld við Íslendingadagsnefndina fyrir að hafa staðið fyrir komu þessara góðu gesta.

Nú vildi ég að ég gæti sagt að mál mitt væri rétt að enda, eða að eftir væru aðeins örfáir lítilvægir hlutir til að minnast mjög fljótlega á, en svo er ekki tilfellið. Það eru enn tvö eða þrjú mál, sem ég verð að drepa á, og svo er hitt, að ekkert, sem að nefndin hefur unnið að á þessu undanfarna ári getur verið skoðað sem „lítilvægt“, — ekki jafnvel hangikjötsmálið, sem var falið stjórnarnefndinni á þinginu í fyrra. Og nú, fyrst að ég nefni það, má ég eins vel segja dálítið meira og flytja þingheimi þær góðu fréttir, að fyrir tilstilli herra Jakobs F. Kristjánssonar og frú Kristínar Johnson og þingmannsins Eiríks Stefánsonar hefur leyfi nú fengizt til að flytja íslenzkt hangikjöt inn í landið. En ég ætla seinna á þessu þingi að biðja Jakob Kristjánsson að bera fram skýrslu í því sambandi til þess að rétt verði farið með það mál og með fullum virðugleik, eins og íslenzkt hangikjöt á réttilega skilið að farið sé með það.

Annað mál, sem liggur fyrir, og sem nefndin hefur haft með höndum, er minnisvarða málið til minningar um Vilhjálm Stefánsson. Eins og vitað er,

sendi féhirðir út bréf til allra meðlima félagsins, í samskota leit í þeim tilgangi að reisa merki til minnis um Vilhjálm Stefánsson. En stofnunin, **Historic Sites Committee** hefur gert stanz á því máli nú um hríð, og bíður nú til vors til frekari framkvæmda í því. Í millitíðinni eru peningar í sjóði, sem félagsmenn hafa sent inn, og bið ég formann þess máls að bera fram skýrslu, seinna á þessu þingi, herra Gretti Johannson.

Með þessu kem ég að útgáfumálum, og tel ég þar með Tímarit félagsins, sem nú er búið að prenta og er verið að binda; vikublaðið Lögberg-Heimskringlu, sem félagið hefur veitt stuðning nokkur undan farin ár, og þar að auki vil ég víkja að bókum, sem eru í vörzlum gamallar og góðrar konu, sem hún vill koma í hendur góðra Íslendinga.

Við Tímaritið hef ég engar athugasemdir að gera að öðru leyti en þeim, að enn kemur það út á þessu ári eins og á fyrri árum, og enn er það í góðum ritstjóra höndum Haralds Bessasonar og Gísla Jónssonar, báðir ágætir menn, vel æfðir í sinni list, og báðir enn fullir af fjöri og áhuga, þó að annar þeirra sé næstum því þremur sinnum eldri en hinn. Ég læt ykkur gizka á hver þeirra sé eldri. En ef að aldur beggja væri lagður saman, og skipt svo í helming, væri hvor þeirra sextugur, eða um það. Sannleikurinn er, að Gísli Jónsson, sem sér um ritstjórn og prófarkalestur með prófessor Haraldi, er, eftir frásögn þeirra beggja, elztur allra íslenzkra ritstjóra, hvort sem er á heimalandinu eða hér í álfu. Og þar að auki er Gísli elztur allra lifandi íslenzkra skálda, sem gefið hafa út kvæðasafn í bókaformi. — Næstur honum held ég að sé Guttormur skáld Guttormsson, í Nýja Íslandi, en hann varð 86 ára í nóvember í haust, en Gísli varð 89 ára s.l. þriðjudag 9. febrúar og þann dag hitti ég hann inni á skrifstofu Lögbergs-Heimskringlu, þar sem hann beið eftir því að komið væri með prófarkir af Tímaritinu til lesturs og leiðréttingar. En Gísli hefur verið við prentiðn í nær 70 ár, að meira eða minna leyti, og lætur ekki aldurinn slíta sig frá prentverkinu.

Tímaritið kemur inn á þing á morgun, og þá fá menn að dæma um hvort að þessir ritstjórar tveir hafi ekki leyst gott verk af hendi.

Um vikublaðið Lögberg-Heimskringlu hefi ég ekkert að segja, annað en að tilkynna þingheim að í dag, eftir kaffihléið, kl. 4 kemur hér fram herra Grettir Johannson, formaður útgáfufélagsins til að bera undir þingheim nokkrar hugmyndi um útgáfu og form blaðsins og vill fá frá þingheimi bendingar eða tillögur eða samþykktir í sambandi við blaðið, sem hann vill ræða hér á þingfundi.

Þriðji liðurinn sem ég gat um nefnilega bækur nokkrar í vörzlum gamallar konu, fjallar um það, að hún vill koma þeim út í almennings hendur, en hún er sjálf mjög heilsutæp orðin og er ekki fær um að sjá um það sjálf. Bækur þessar eru ljóðabækur eftir Þorstein Þ. Þorsteinsson, og seldust upphaflega fyrir tíu dollara bæði bindin til samans, í kassa. En hún er viljug að láta þær fara fyrir hálft verð, eða $5.00 fyrir bæði bindin.

Þ. Þ. Þ. eins og menn vita, var vel hæfur í mörgu og skrifaði mikið þar á meðal fyrstu þrjú bindin af Sögu Íslendinga í Vesturheimi. En í þessum bókum birtist kveðskapur hans í góðu og fallegu formi.

Einn viðburð enn, vil ég nefna, og þá fer mál mitt að enda, og það er í sambandi við hina stórhöfðinglegu gjöf sem Björn Gunlogson og Ida Gunlogson, systir hans, gáfu ríkinu North Dakota til notkunar sem skemmtigarð og gróðrarsvæði margra tegunda blóma og annara jurta. Garðurinn hefur verið nefndur Icelandic State Park í North Dakota, og í bréfi til mín frá manni sem heitir Edward Milligan, forseta North Dakota Historical Society, segir hann og ég hef orðið eftir honum eins og hann skrifaði á ensku:

„The Gunlogson contribution involves about 240 acres, so arranged that it preserves the woodlands along the river, (Tongue River). In addition the Department of Water Conservation has donated an equal amount of land adjoining. There is a dam so fishing, bathing and boating are provided for the people. The park will be the Icelandic State Park and the Gunlogson portion will be developed as the Gunlogson Arboretum. We shall make this a beauty spot enhanced with native trees and shrubs ........ Mr. Gunlogson has for years dreamed of such a park.“

Þessi skemmti- og gróðrargarður var vígður, sunnudaginn 2. ágúst í sumar. Ómögulegt var fyrir þjóðræknismenn að taka þátt í þessari miklu og virðulegu hátíð, — vegna Íslendingadagshaldsins sem fram fór á Gimli um sama leyti, en ég sendi heillaskeyti fyrir hönd félagsins, en þar að auki hafði ég verið í töluverðum bréfaviðskiptum við Dr. Milligan, nokkru fyrr um vorið, í maí og júní.

Er um hátíðahöld er að ræða hygg ég að það sé mjög viðeigandi að minnast þess að landnámið við Winnipegvatn, í Nýja Íslandi hófst fyrir 90 árum. Íslendingar stigu fyrst á land á vatnsbökkum Winnipegvatns 21. okt. 1875. Það verða full 90 ár í haust síðan að

landnámið hófst í Nýja Íslandi, og Íslendingar stofnuðu þar ríki út af fyrir sig með sína eigin stjórn. Menn vilja e. t. v. ræða þetta atriði á þinginu, með það fyrir sjónum að minnast þess á einhvern viðeigandi hátt, eða hitt að láta það bíða í önnur tíu ár og hafa þá viðeigandi 100 ára hátíðahald landnámsins.

Stjórnarnefndin tók til athugunar mál sem borið var inn á þing fyrir ári síðan, um stofnun styrktarsjóðs til hjálpar stúdentum á háskólum hér og e. t. v. á öðrum háskólum. Nefndin kom sér saman um að leggja það mál til hliðar að minnsta kosti um stundar sakir, aðallega vegna þess, hve sjóðurinn yrði að vera stór til þess að vera nægilega arðberandi til að koma að verulegu gagni. Og þar að auki væri oft þörf á peningum til annara félagsmála, en þeir oftast af skornum skammti.

Það er ekki að skilja sem svo að stjórnarnefndin sé mótfallin hugmyndinni um nemendastyrk, en heldur hitt hve hún hefur í mörg horn að líta og að hvert horn hefur sinn kostnað í för með sér.

Og hér vil ég skjóta annari hugsun inn í málið, og er það í sambandi við félagsgjöld Þjóðræknisfélagsins eða meðlimagjaldið. Það þekkist öldungis hvergi í nokkru félagi sem ég veit af, að félag (sem hefur eins mikið fyrir höndum eins og þetta félag hefur) reyni að gera það með jafn litlu peningaafli og því sem vér höfum til umráða. Fyrir tveggja dollara meðlimagjald sem borgað er árlega, fæst Tímarit og þar í viðbót öll þau réttindi og hlunnindi, sem því fylgja að vera meðlimur félagsins. Margur borgar miklu meira fyrir miklu minna.

En ekki ætla ég að ræða þetta mál, né bera það inn á þing, en menn skilja, held ég, hvað ég á við.

Í samvinnumálaskýrslunni við Ísland á síðasta þingi, var því máli vísað til stjórnarnefndar, að athuga möguleika á því að stofna til hópferðar til Íslands, frá Winnipeg. Þið þingfulltrúar og meðlimir félagsins og deilda hafið fyrir nokkru fengið upplýsingar um hver árangurinn er nú í þessu máli. Það er búið að ráðstafa ferðinni héðan frá Winnipeg og beina leið til Keflavíkur, fyrir lægra far en margir höfðu gert sér vonir um að gæti fengizt.

Maðurinn, sem mest hefur unnið að þessu máli, er Jakob Kristjánsson skjalavörður félagsins, og hann hefur getað ráðstafað mánarðarferð heim til Íslands fyrir $285.00 fargjald fram og aftur. Flugvélin rúmar 88 farþega, fullskipuð. Gert er ráð fyrir að farið verði héðan 21. maí og komið aftur 20. júní. En það er skilyrði í sambandi við hópferðir líkar þessari, að hver sá, sem vill nota sér tækifærið að ferðast með í hópnum, verði að hafa verið meðlimur í félaginu (eða deildum þess) sem stendur fyrir ferðinni, í minnst sex mánuði áður en ferð hefst. En ekki fer ég lengra út í málið en þetta. Jakob F. Kristjánsson hefur margt, sem hann vill útskýra, og ég geri ráð fyrir að kalla hann fram seinna á þingfundum vorum til að bera þar fram skýrslu um hina fyrirætluðu ferð til Íslands í sumar.

En nú slæ ég botn í skýrslu mína. Þetta hefur stjórnarnefndin unnið á þessu liðna ári. Þetta hefur verið starf hennar og starfsvið. Heimsóknir til deilda hafa ekki verið eins margar eins og stundum áður en samt hefur áhugi hjá öllum deildunum sjaldan verið meiri, né samvinnan betri hver við aðra og við félög, sem enn standa utan við aðalfélagið. Við erum fús til samvinnu við alla, sem þess æskja, og sem stefna að sama markmiði og vér, nefnilega því, að vera góðir borgarar þessarar þjóðar og á sama tíma vera góðir Íslendingar. Það er engin mótsögn í að vera góður Íslendingur og góður borgari þessa lands. Eitt felst í öðru og fylgist að. En þetta er ekkert deiluefni og þarf ekki að vera. Sannleikurinn í því hefur margsannazt á hinum síðustu 46 árum, sem Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi hefur verið á lífi. Og orðaflækjur afsanna ekki það sem sannleikur er orðinn.

Það er ekk tiilgangur þessa þings, né þessa félags að láta hugfallast, en miklu heldur, eins og sagt var, að **„knýja kraftana áfram"**. Og það gerum vér með hjálp margra góðra manna og kvenna, því markið er hátt sem stefnt er að, og ekki dugar annað en **átök, djörf og sterk.**

Svo býð ég ykkur öll velkomin á þetta 46. ársþing félags vors til að njóta ánægjunnar, sem fylgir því að koma saman sem Íslendingar, og til þess að vinna að viðhaldi og framgangi hjartfólginna áhugamála.

**Philip M. Pétursson.**
forseti.

---

Fundir þessa fertugasta og sjötta þings voru mjög vel sóttir, og allar samkomur haldnar fyrir fullu húsi. Það virðist sem Þjóðræknisfélagið sé heldur að sækja í sig veðrið á ný, því þingið var mjög líflegt og mikill áhugi kom í ljós.

Svolítil nýjung í formi setti fallegan svip á þingið í byrjun, þá er Kristín Johnson sá um að allir þinggestir sem inn komu fengu nafnspjald til að bera í barmi, og skrásettu sig í þingbókina. Sat frú Kristín svo að segja límd við ritvélina út við dyrnar og ritaði hvert spjaldið eftir annað og bauð alla vel-

komna. Þetta var líka ósköp þægilegt, því nú gátu allir ávarpað hver annan með nafni með því aðeins að líta á barmmiðann.

Um 65 manns sátu fyrsta fund, mánudaginn 15. febrúar. Forseti setti þing kl. 10 f. h. Dr. V. J. Eylands stýrði guðsþjónustu stund, en Gunnar Erlendson var við hljóðfærið. Því næst las forseti skýrslu sína sem var ítarlegt yfirlit yfir starf stjórnarnefndarinnar á árinu og einstakra nefndarmanna. Minntist forseti hlýlega þeirra félagsmanna sem fallið hafa frá á árinu, sérstaklega frú Lalah Johannson og Ambassador Thor Thors. Innifalin í ræðu hans var kveðja sú er forseti Íslands flutti í kanadíska útvarpið á tuttugu ára afmæli lýðveldisins. Hann skýrði frá að ljóðabækur Þ. Þ. Þorsteinssonar væru til sölu á þinginu, með niðursettu verði: tvö bindi fyrir $5.00. Einnig gat hann um hátíðina í N. Dakota þá er opnað var Icelandic State Park, en Bjorn og Loa Gunlogson gáfu að mestu leyti landsvæðið fyrir þennan listigarð. Hafði forseti okkar sent heillaóskaskeyti, en almenningur héðan gat ekki sótt mótið, þar sem hinn mikli Íslendingadagur fór þá hér í hönd.

**Ný Deild.** Þá las forseti símskeyti frá Edmonton þess efnis að Íslendingafélagið þar hefði samþykkt á ársfundi sínum í byrjun febrúar að gerast deild í Þjóðræknisfélaginu, og tekið nafnið „NORÐURLJÓS“. Var þessum tíðindum vel fagnað. Þingið þakkaði forseta og nefndarmönnum framúrskarandi gott starf á árinu. Forseti kynnti heiðursgest þingsins, herra Sigurð Helgason, formann Loftleiða í New York, og frú hans Unni Einarsdóttur, og gaf þeim merki Þjóðræknisfélagsins.

Skrifari gerði tillögu, að Þjóðræknisþingið sendi heillaóskaskeyti til frú Eleanor Sveinbjornsson, ekkju tónskáldsins, er nýlega átti 95 ára afmæli. Var því vel tekið af öllum, og skrifara falið að senda skeytið.

Því næst fór fram virðuleg athöfn í sambandi við hinn nýja kanadíska fána, sem samþykktur hafði verið af sambandsþinginu og af Elísabetu drottningu, og sem var nú formlega dreginn að hún á öllum stjórnarbyggingum og opinberum fyrirtækjum, einmitt á þessari stundu. Forseti las tilskipun frá Duff Roblin, forsætisráðherra Manitoba, var því næst hinn nýi fáni dreginn að hún á sínum stað milli íslenzka fánans og Bandaríkjafánans á frampalli salarins og síðan sungið O' Canada. G. L. Johannson flutti skýrslu gjaldkera. Inntektir: $3.995.69. Útgjöld: $3.794.54. Inn hafði komið í minningarsjóð V. Stefánssonar, $950.50, en borgað út $150.00, sem var tillag til Arnes nefndarinnar, sem lítur eftir starfi þar norðurfrá.

G. Levy flutti skýrslu fjármálaritara í 30. skipti. Sagði hann að félagið bæri engin dauðamerki, þar sem meðlimagjöld væri nú hærri en nokkru sinni fyrr, a. m. k. á þessum 30 árum, sem hann hefir verið við starfið.

Fulltrúar á þingi voru:

FRÓN: Kristin Johnson, Regina Sigurdson, Guðbjörg Sigurdson, Margrét Sigurdson, Gunnar Baldvinson, Páll Hallson, Ólavía Finnbogason.

GIMLI: Mrs. W. J. Árnason, I. O. Bjarnason, Mrs. P. G. Thompson, Miss Sigurbjörg Stefánsson.

ESJAN, Arborg: Jóhann K. Jóhannson, Gestur Pálsson, Kristín Skúlason, Guðrún Jónasson, Herdís Eiríkson.

BÁRAN, Mountain, N.D.: Dr. R. Beck, Mrs. Margret Beck.

STRÖNDIN, Vancouver, B.C.: Snorri Gunnarsson.

LUNDAR: Gísli S. Gíslason, Ingibjörg Rafnkelson.

BRÚIN, Selkirk: Friðrik Nordal, Jefeta Skagfjörð.

ÍSLAND, Morden: Louisa Gíslason.

Kveðjur og skeyti til þingsins hafa þegar komið á prenti, og sömuleiðis fréttir um samkomur þingsins; verður þeim sökum þess sleppt hér.

Um 80 manns sóttu þingið eftirnónið á mánudaginn, þá er Sigurður Helgason formaður Loftleiða í New York, og heiðursgestur þingsins flutti kveðjur og ávarp. Flutti hann kveðjur frá Loftleiðum; frá Dr. Bjarna Benediktssyni, forsætisráðherra; frá Hannesi Kjartanssyni, aðalræðismanni í New York; frá Þjóðræknisfélaginu á Íslandi og formanni þess, Sigurði Sigurgeissyni; frá Sigurbirni Einarssyni, Biskup yfir Íslandi; og frá Íslendingafélaginu í New York.

Skýrslur deilda.

Brúin, Selkirk: Fimm fundir á árinu, vel sóttir. Sumarmálasamkoma 23. apríl, vel sótt; gaf $25.00 til Skálholts, og $25.00 til styrktar L-H. Þrjár konur gengu í félagið: Emma Bessason, Lillian Funk, Christie Rogers. Eru nú 22 meðlimir. — (Sigrun Nordal, skrifari).

GIMLI: Þrír starfsfundir, og margir nefndarfundir. Á Íslendingadaginn tók deildin þátt í skrúðför. Á vagninum sátu 12 menn og 3 konur. Átti þetta að tákna fyrstu Íslendingadagsnefndina árið 1889, sitjandi á fundi (það voru aðeins tvær konur í þessari fyrstu nefnd, en ein kona nýkomin frá Íslandi var gestur). Deildin gaf $100.00 í minningarsjóð V. Stefánssonar og beitti sér fyrir samskotum í sjóðinn. Vann að því að lagað væri kring um landnemavarðann. Bæjarráð Gimli gerði góðar umbætur; setti járn-

